# LJÓÐ

EPTIR

EIRÍK E. SVERRISSON

(FRÁ HVAMMI Í MÝRDAL).



REYKJAVÍK.

GLASGOW PRENTSMIÐJAN.

1902.



## Fyrstu blómin mín.

Það var um morgun, vors míns fyrstu stundir,
á vaxnar liljur fögrum bjarma sló,
þar fuglar sungu ljóð um laufgar grundir,
og lífið gjörvallt nærðist, vann og hló.

Sem lítið blóm jeg lá við móðurhjarta,
þess ljúfu dýrðargeislar vermdu mig.
Þá ljek jeg mjer sem liljan ástarbjarta
í ljettum vorblæ þegar hreyfir sig.

Hún klæddi mig, og gaf mig guði mínum
til gæzlu, þennan fagra sólskinsdag.
Er vorið skín í sigurkrafti sínum,
þá syng jeg enn þá hennar bænalag.

Svo gekk jeg út, að hlusta' á vorsins hljóma,
og heyra fossins þunga morgunsöng,
en fann á svipstund fjölda nýrra blóma
í fögrum grasteig, nálægt klettaþröng.

Jeg tók þau flest, og sýndi móður minni,
jeg man, jeg ljek mjer við þau fram á kvöld.
Mjer fannst þau gætu gróið betur inni,
því golan hlyti' að vera blómum köld.

Að skammri stundu, vökvaleysis vegna
þau voru, nema' ein sóley, dáið hjóm, —
mjer ungu barni, fanst það furðu gegna,
hví fölnað hefði' ei líka þetta blóm.

Jeg spurnaraugum leit á móður mína:
»Hví missti' jeg hin, fyrst þetta lifir enn?
jeg skil það ei, hví blómin deyja' og dvína,
mjer dálítið um þeirra lífsöfl kenn!«

Jeg man, hún vafði mig að hjarta sínu
og mælti þannig: »Ljúfa, sæla barn!
Æ, hvað mun síðar bjarga blómi þínu,
er berst það eitt við lífsins grimmdarhjarn?«

Jeg sá hún grjet, og guði fól mitt hjarta,
jeg gat ei skilið hvað hún meinti þá.
En hvað var það, sem geymdi blómið bjarta?
mín barnsleg hugsun úrlausn vildi fá.

»Hvert blóm það á sjer bæði lauf og rætur
á bleikum stofni sjerhver lilja grær,
en ef þú blóm frá rótum rifið lætur
það röðull sólar aldrei lífgað fær.

Og blómið fagra barst þú inn með rótum,
og bjóst því rúm í gróðrarsælli mold,
en hin þú sleitst á vökva og varma mótum,
þau vanta rætur, hnigu því að fold.

Í vörmum reit því vakir blómið hreina.
Jeg vil ei fleira, barn mitt, segja þjer,
en síðar færðu sömu lög að reyna,
að sönnum vini þegar leita fer«. — — —

En nú er móðir mín fyrir löngu dáin
— á moldum hennar brosir geislaskin, —
og líka vöknuð ljúfa sterka þráin,
að leita mjer að tryggum hjartans vin.

Og jeg hef síðar hlýtt á marga hljóma,
en hvergi fundið ljúfan móðursöng,
og jeg hef leitað meðal margra blóma,
að m i n n i lilju, í heimsins klettaþröng;

— en hvergi getað fundið sóley fríða,
sem fylgdi með hin varanlega rót,
er blómgast gæti' á bárum sorgartíða
og brosað líknarhimni drottins mót.

En áttu, veröld, hvergi þetta hjarta,
það hjarta, sem í raunum treysta má?
Jú, þú átt marga perlu blíða' og bjarta,
en barnsleg, trúuð hjörtu nauðafá. — — —

Mjer blómreit lífsins brekkur tímans hylja
ei bernskurósir framar gleðja mig,
en fölskvalausa, hreina himinlilja,
jeg hef, ef til vill bráðum fundið þig.

---

## Bindindishvöt.

Í fornöld var sigurinn feðranna hrós,
og flóttinn í óvina liði,
þeir tendruðu marglofað mannfrægðarljós,
sem með þeim er hnigið að viði.

Vjer söknum nú manndáðar með þeim er hvarf,

en meinsemdir þjóðlíf vort flekka,
vjer tókum ei frelsið nje aflið í arf,
en af þeim vjer lærðum »að drekka«.

Vor stefna' er að sigrast á þjóðlesti þeim,
svo þegnfrelsi rjettu vjer náum.
Því fegursta sólskin í framtíðar heim,
og fullkomna menning vjer þráum.

Að dugnaði fetum í feðranna spor,
á framsókn hins göfuga trúum:
þá aukist oss kraptur, þá eflist vort þor,
ef aldrei til baka vjer snúum.

Sje árveknin staðföst, og einingin djörf,
og innbyrðis samlyndi' og friður,
vor barátta háð fyrir bindindisstörf,
þá braut sjer til framkvæmda ryður.

Svo styrkjum hið víðfræga vínnautnarbann
að verði það ættjarðar prýði.
Já, framtíðin blessi hvern bindindismann,
er berst í svo veglegu stríði.

---

## Á Fossi.

I.

Þar var ljúft að lifa,
lífsins fyrstu stundir,
meðan ársól æsku,
indæl ljek við mundir,
þegar blikskær brostu
blómtár vorliljanna,

þá var glatt í garði
góðu foreldranna.

Húsin hlý og snotur,
hagleiks sýndu merkin,
flestum þóttu fögur
föðurs listaverkin,
blessun, ást og blíða
bjuggu innanveggja,
lán og lipurð hjóna,
ljetti vinnu beggja.

Líkt og liðna drauma
ljósi bregði yfir,
mörg ein fögur minning,
mjer í brjósti lifir,
gafst þó margt er gladdi
geðið frjálsa, unga,
sem er sárrar gleymsku
sveipað þokudrunga.

Stóð á hálsi háum
hreini, litli bærinn,
ljek við húsin lágu
ljetti morgunblærinn,
og í litlum ljóra,
ljóss með geislatjöldin,
eldur aftansunnu
endurskein á kvöldin.

Lítil lind við bæinn
ljek í straumbreytingum,
gafst þar vatnið góða,

greru blóm í kringum,
sem í sumarskrúða,
sveigðu lauf að barmi,
var þá lindin líkust
ljósum meyjarhvarmi.

Framhjá lind svo ljúfri,
lækur rann í boga,
sem á sumardögum
sólar- flaut í -loga,
fram af hálsbrún hárri,
hrökk svo þráðbeint niður,
fögur byggð á Fossi,
fossinn kennd er viður.

Indælt er á vorin
út að horfa þaðan,
yfir ása, dranga,
ægi bláfaldaðan,
heiðar, hálsa, jökla,
hlíðarvötn og dali,
bæi, hús og haga,
háa fjallasali.

Þar var ljúft að lifa
lífsins beztu stundir,
geymdust trega tárin
töfrablæju undir,
von um framtíð fríða,
festist mjer í hjarta,
leit jeg fram á leiðir
lífsins æskubjarta.

## II.

Já, svona leið áfram hin sælasta stund,
sem jeg hef lifað á feðranna grund,
en tímarnir breyttust og barnæskan hvarf,
baráttu mannlífsins tók jég í arf.

Nú er í eyði hinn blómlegi bær,
barnsandinn frjáls ekki lengur þar hlær,
blómknappar faðma nú langþjáða lind, —
lindin er uppþornuð, vatnslaus og blind.

En fossinn hann syngur sinn bergstillta brag,
brattur í gljúfrinu enn þá í dag,
hann syngur um barnæsku, fegurð og fjör,
um frelsið og þjóðanna margbreyttu kjör.

Hann syngur þar glaður um aldur og ár,
um allt það, sem við ber, svo fagur og hár,
en mig, sem er þjakaður mannlegri eymd,
hann minnir á bernsku, sem nærri var gleymd.

---

## Haustkvöld.

Sjáið kveldbjarmann klettana roða,
nóttin komandi fer, sína hljóðlausu braut,
sjáið kvistina bliknandi boða,
vorsins burtfararstund,
lífsins hverfandi skraut,
næða ljett um nakinn runna,
nöpur stormakvein,
bíður banamein,
blómguð rós hjá stein,

geisla-kveðju sendir sunna
sjúkri skógargrein,
:,:engilhrein:,:.
engilhrein.

---

## Gæsavatn.

Þú fagra vatn í djúpum dal,
þar drottnar heilög kyrrð og friður;
í reginháum hamrasal,
heyrist hinn ljúfi straumaniður.
Ó, hve þú hrífur huga minn,
er hef jeg dvöl hjá bústað þínum,
á engilblíða arminn þinn,
jeg öllum varpa sorgum mínum.

Er morgunsólin munablíð,
af mærum blundi rís á fætur,
svo blítt við þig í faðmlög fríð,
hún falla sína geisla lætur,
ljósbirta þeirra himinhrein,
þjer helgar ávöxt prýði sinnar,
þeim banna engin mæðumein,
að mega njóta ástar þinnar.

Með fögrum söng, af frjálsum hug
fuglarnir blítt þjer lofgjörð kvaka,
er þeirra vængi þreytir flug
á þínum brjóstum hvíld sjer taka,
þeir fljúga til þín hrelldir heim,
ef hræðast tjón á lífi sínu,
þú fær við hættu forðað þeim
og falið djúpt í skauti þínu.

Ó, að jeg mætti æfitíð
eyða hjá þjer í sælum friði,
og loksins eptir liðið stríð
mín lífsól gengi hjer að viði!
Þótt annars staðar æfikvöld
jeg ætli' að byrgi sjónir mínar,
hjer áttu' um landsins lífstíð völd
um lyngi grónar strendur þínar.

---

## Úr fyrirlestri.

Hvert vandað orð því vitni ber,
að vjer eigum menntaða, göfuga sál.
Hvert blótsyrði, þjóðtunga afbökuð er, —
geymið ættlandsins fornhelga mál.
Vísið öruggir hjartnanna deyfð á dyr,
með dugnaði byggið vort láð,
það hamingju krýnið og hættið ei fyr,
en hafið því takmarki náð.
Frelsið fósturláð,
þá heitstrenging vinnum að hætta' ekki fyr,
en höfum því takmarki náð.

---

## Úr brjefi til H. Dagbjartssonar.

Á þenna seðil blek jeg ber,
brátt er til þín svífi,
svo þú vitir, enn þá er
Eiríkur á lífi.

Hjeðan er í frjettum fátt —

fyrirgefðu, bróðir! —
Flestir lifa í friði og sátt
firðar hjer um slóðir.

Ósk sú kærust mundi mjer,
ef mætti framgang hafa,
að þú værir, vinur, hjer,
við mig nú að skrafa.

Mín er spá, að næsta nóg
nú væri á að minnast,
kannske sjáumst síðar þó
sælt mun þá að finnast.

Meðan lífs um leiðirnar
liggur æfiþráður,
könnumst við, að kunningjar
kærir vorum áður.

Heima við í Hvammi fyr,
hvar um grund sem fórum,
minnumst þess, að missáttir
mikið sjaldan vórum.

Meðan lifi mun jeg þinn
málkunningi reynast,
vil jeg líka, vertu minn
vinur fyrst og seinast.

Vertu harður líkt og ljón,
lífs er neyð á dynur.
Enga flyt jeg fyrirbón,
forlát, kæri vinur!

---

## Minni Íslands.

Vor aldna móðir, eyjan tignarlega,
vjer allir minnast viljum þín í dag;
oss hjálpi drottinn vogest þann að vega,
er vill þíns frelsis hinnsta sólarlag.
Þú hefur opt í þungar raunir ratað,
og rjettum sigri þó að lokum náð,
en drykkjunornin getur öllu glatað
og gullkranz vonar þjer af hjarta máð.

Því afkomendur áttu fjölda marga,
er alla sína fátækt kenna þjer,
en samt ei vilja sjer frá glötun bjarga,
því sál og lífi þeirra fórnað er;
á blóðaltari bölvunar og tára
þar beizkja dauðans verður náðargjöf,
í faðmi þínum, ættjörð þúsund ára,
nú áttu marga þannig vígða gröf.

En þú átt líka börn, sem vilja bera
sín beittu spjót að heljargesti þeim,
og víndrykkjunnar vebönd sundur skera,
en villtum sýna bjartan frelsis heim.
Því hjer er margt, sem glætt og lífgað getur,
hið göfga, hreina og fagra í vorri sál,
þó land sje kalt og langur þyki vetur,
hjer ljómar einnig vorsins dýrðarbál.

Af fremsta megni vjer þig styrkja viljum,
og vora beztu krafta helga þjer.
Vjer elskum þig í blíðu' og vetrarbyljum,
vort blóð frá þínu hjarta runnið er.

Ó, lát nú Ísland, frelsisdreyrann forna,
til frægðarvinnu knýja hjörtu vor,
og heljarköldum klaka-brjóstum orna,
en kveifarlegum auka mátt og þor.

Með helgri von, um sigursæld hins góða
því sækjum bræður fram, og dugum vel,
og látum eigi Bakkus frændum bjóða,
þann banadrykk, er fylgir synd og hel.
Nei, sigrum vínið, sigrum vald hins illa,
og sjerhvert vopn, er oss á móti rís,
þá megnar ekkert mætti vorum spilla,
því málstað góðum sigurfrægð er vís.

---

## Morgun í Grímsnesi.

Heiðskýra ljósbrún af hásumardegi
hvað þú ert fögur í þessari sveit!
barnslega hrifinn og ástfanginn, eigi
áður jeg neinstaðar fegri þig leit,
krýnir þú loggeislum kirkjuna' og bæinn,
kristallar myndast um járnvarin þök,
mönnunum sýnir þú dýrðlega daginn
dansandi, ljettfleyg í náttskýjavök.

Bláhylji speglandi Brúará flytur
brimúðgri Hvítá með líðandi straum,
nýþvegið Mosfell í silfurdögg situr,
syngjandi vorfugla bergmálar draum,
ljósöldum gagntekið fjörvana funar
forsælu-rökkur und skyggjandi brún,

ljóminn frá austrinu logandi brunar
lyngmóar glitra við nýslegin tún.

Kvar fæ jeg veglegra hlutskipti hlotið
hóglega dreymandi, vakinn af blund,
hví fæ jeg að eins þess indælis notið,
augnabliks, skammvinna hjerveru stund.
Hví varstu' að sýna mjer sólina björtu,
suðræna vordís? Því mjer var svo kalt.
Vissirðu' af náttmyrkri vetrarins svörtu?
vegur minn liggur í gegnum það allt.

Brygðmálga veröld, ó, hvar á jeg heima,
hvar viltu leigja mjer áfangastað?
á jeg sem ráðviltur útlagi' að sveima
yfir þín fyrnindi? segðu mjer það.
Ljós minnar vorgleði ljómar í heiði,
leiðsagnartálráð jeg fyrirlít þitt,
alstirndan himininn augum jeg leiði,
er ekki guðsríki heimkynni mitt?

---

## Frá J. Þ. til H. Th.

(bróður hans erlendis).

Þó nú sje kalt við norðurpól
með nýju sumri blómin vakna
í hægum blæ, mót blíðri sól,
í brúnum skaflar hvítir slakna.

Oss vorið nýja vekur þrá,
að verða það sem hyggjan biður,
því fóstra vor er fögur þá,
en fátæk, því er ver og miður.

Því fjarlægð skilur frænda blóð,
þó feginn með þjer dvelja vildi.
En sízt er hent að missa móð,
þó miður gangi', en vera skyldi.

Í glaumi lífsins: gleði og sorg
vor gæfuþrá er frelsis vigur;
það lukku vorrar byggir borg
að berjast rjett, og vinna sigur.

Ó, vertu sæll, í Vesturheim,
þjer vegna megi sífellt betur.
En frændanöfn og fóstru geym,
hún frosin hjalar nú um vetur:

»Mitt jólablóm er jökulrós,
minn jólasöngur fossaniður,
mín nýjársgjöf er norðurljós,
mitt nýjárs yndi kvöldsins friður.

---

## Orkt á heimleið úr ‚veri'.

Með angandi blómum við bládjúpan sæ
nú brosir þú, sveitin mín kæra,
frá austrinu sendir þú ásthlýjan blæ,
mót yngjandi sumri jeg glaður hlæ,
í vordaga skininu skæra.

Með kærleikans blómum í bindindissveit
hjer bíða mín frelsisins vinir,
með einlægum vilja, sem unnu þess heit:
gegn ofdrykkju berjast í vorri sveit,
oss jafnvel þó hötuðu hinir.

Og hatrið og lymskan ei leyndu sjer þá,
er lofsverðu stefnuna tókuð
samt þakklæti verðskuldað allmargur á, —
en ekki' yrði dómana fallegt að sjá,
ef væri sú vitleysa bókuð.

Þó naumast sje kulnað í kolunum enn
þar kviknað ei framvegis getur,
ef samhuga berjumst sem bindindismenn
þá bíta' okkur vopnin sem hefðum tvenn,
svo bardaginn gengur því betur.

En hvernig vjer berjumst, og hver sje vor þrá
gegn hersveitum víndrykkjumanna,
af »Sameining« vorri það athugast á,
því oft verða slysninnar tildrög smá,
er granda því göfuga' og sanna.

Vjer megum ei fara svo fíflslega hart,
með fellandi, særandi dómum,
að hófdrykkjumönnunum sýnist þar svart,
er sjálfum oss þykir svo yndisbjart
og frjóvgað af framtíðarblómum.

Með syngjandi dansferð um bindindisbraut
ei bjargað þeim víndrukknu fáum,
þeir segja, við hoppum sem hænur og naut
og »hringlið« og »trallið« sje lítil þraut,
en þetta sje helzt, sem vjer þráum.

Að hjúkra þeim blómum, er lagst hafa lágt
í ljósvana, kvíðandi sálum,
það kostar oss nærgætni, kærleik og mátt,

sem knúið fær andann á takmark hátt
í mannkynsins velferðarmálum.

Þeim fátæku peninga verður ei vant,
er veglegum framkvæmdum sinna,
því setjirðu, vinur minn, viljann í »pant«
þú voninni bjarga frá slysum kannt,
og rjettmæti frelsisins finna.

Í sameining vinnum að sambandi því,
er sameinað dyggðirnar getur,
í samvinnu myndast þá sameining ný,
þar sambúðin verður svo yndishlý
á vori, sem þekkir ei vetur.

---

## Páskadagsmorgunn 1900.

Jeg man þig á, kalda morgunstund,
þó mikil að sönnu værir,
þú gatst eigi hrifið grátna lund,
er gremjan og blindnin særir.
Með lýjandi glotti leiðstu hjá,
sem lygð yfir heiminn bærir.

Því allt var svo kalt og ömurlegt,
sem ógnandi dularrómi
þú læsir mjer glötun, synd og sekt
og söguna' af hinnsta dómi,
þar forlögin dæmdu frið af jörð
og feigð yfir hverju blómi.

Og snjóskýjamóða grúfði grá
á gnæfandi fjallatindum,

en lækir og fossar liðu hjá,
sem lífið í ótal myndum
og stormurinn ljek við stráin köld,
með sterkviðris hroka blindum.

En dagurinn leið á ljósri braut
og losnaði úr faðmi þínum,
svo stormurinn dó og þokan þraut
og þykkjan í huga mínum,
þó breyttist ei hafið heljar kalt,
varð heimurinn fegri sýnum.

Þó storminn þann hefði loksins lægt,
ei ljómaði sólin bjarta,
því snódrífan læddist hægt og hægt
með hel-blæju dular-svarta
og lagðist sem bjarg of legstað manns,
á lúið' og viðkvæmt hjarta.

Vort hugsanaríki er hafdjúp myrkt,
und hverfandi tímans bárum,
af vorfögru landi vonar gyrt,
er vöknar af beizkjutárum,
þar elskunnar stundum röðull rís
úr reiðinnar köldu gárum.

Í dögg hafði snúist drífan grá,
og dimman í ljós frá hæðum,
en jörðin var, undir sól að sjá,
í sumarsins morgunklæðum;
þá vöknuðu blóm, er vörðu líf
í vetrarins kulda skæðum.

Þó von mín þeim degi væri reið,

hún, viknaði klökk og þagði,
er sólin á bak við bláfjöll heið
sig blessuð til hvíldar lagði, —
með dagglöðu brosi dýrðarskær,
hún drottinn minn lifa sagði.

---

## Til S. Th. Leifssonar

frá systur hans.

Þó fjarlægð með hrífandi haföldu glaum
þá hjartkæru margsinnis skilji, —
fær kærleikans alveldi klofið þann straum,
og knýtt saman elskunnar sterka taum,
svo mikið er vald þess og vilji.

Við heimskautið nyðra þó hjerna sje kalt,
og hrímguð vor fannhvíta móðir, —
þú gleymast mjer aldrei, nei, aldrei skalt,
við örlaga fjallsbrún þó verði svalt,
minn hugljúfi hjartkæri bróðir.

Jeg sendi til himins þá brennheitu bæn,
að blessi þig tímanna faðir.
Á Íslandi hjer þó mín gröf verði græn,
hjá guði við finnumst sem lífstrje væn,
þá geyma' okkur englarnir glaðir.

---

## Jólasálmur.

*Lag*: Indælan blíðan.

Himins á vegi
hallar nú degi,

horfin er sól,
blástjörnur boða,
björtum með roða,
börnunum jól,
fögnum því lausnarans fæðingarstund,
færum nú drottni vort þakklætis-pund.

Englanna heimur,
guðs dýrðargeimur,
gleðjast með oss,
dagsbrún vjer sjáum
drottins og þráum,
dýrðlegra hnoss, —
leið oss úr hættunum himneska ljós,
harmþrungnu sálnanna fegursta rós.

Jesús er fæddur:
frelsinu gæddur,
fagni guðs her,
leystir með blóði,
lausnarinn góði
lof syngjum þjer,
blómkvistur Jesse vort hjálpræði og hnoss,
hjörtu vor flytja þjer ástvina koss.

Herskarar hæða
hrósandi ræða:
Helgist þitt nafn,
leiðtogi lýða,
lífsperlan fríða,
ljósanna safn,
boðar oss líknandi blessunar ráð,
brennandi kærleikans eilífu náð.

Trúaðra barna,
blessunar stjarna,
Betlehemsrós,
styrk þú minn anda,
áform að vanda,
efla þitt hrós.
Gef þú mjer, alfagra sannleikans sól,
síðar í dýrð þinni gleðileg jól!

---

## Frá móður til sonar.

Sú algóða höndin, sem allt getur bætt
og amasár hjartans fær blæðandi grætt,
hún signi þig, sonur minn góður.
Ó, berstu sem hetja með heilagri trú,
við heiminn, og aldrei frá drottni þjer snú.
En kvöldroðinn brosandi kyssi þig nú,
sem kveðja frá ástríkri móður.

---

## Dauðinn.

Þú dauðans andi allt sem nístir gegn
með undrakrapti þinna heljarskeyta,
þú vekur brjóstum biturt harmaregn
og byrgir myrkri vonargeislann heita.

Í faðmi þínum, feigðarsjóli hár,
á fyrnd og bernsku sjest því enginn munur,
já, sæla þín er syrgjendanna tár
og sigurkvak þitt djúpar andlátsstunur.

Ó, *h*vað þín hönd er hulin, myrk og dimm,

er heill og von í tár á svipstund breytir
en undir eins svo ströng, svo stríð og grimm,
er stráum jarðar enga miskunn veitir.

Því eins og bliknað blóm um vetrarstund,
í bitrum kuldanæðing deyja hlýtur,
vjer fölvir hnígum fyrir þinni mund,
er feigðarblær um andans sali þýtur.

Ó, hvað ert þú, hið valta og veika líf,
í viðkvæmninnar sáru hlekkjum bundið?
Ein hverful svipstund, harmur, sorg og kíf,
er hvergi getur sanna rósemd fundið.

Þótt æskan við þjer brosi himinblíð,
á björtu vonargeisla skeiði þínu,
hin kalda framtíð flytur sorg og stríð,
uns feigðin slær oss sárri dauðans pínu.

Vjer göngum mæddir grafar fram að blund,
en gleymum þó að biðja, stríða og vaka.
Oss hryllir við að hugsa um þá stund,
er hinnstu lífsins andvörp skulum taka.

En gegnum dauðans myrkur meginsvart.
er mæddar sálir bezt kann friða' og hugga,
vjer glaðir sjáum lífsins ljósið bjart,
á ljóma þess ber aldrei dimman skugga.

---

### Til vorsins og æskunnar.

Hví ertu kvöld svo kyrrt og rótt
hví komstu ei með næturblæinn?
að syngja ljósa, liðna daginn

að djúpi hafs um hljóða nótt.
Hvort fær þú látið fjöllin dreyma
og fugla sínu kvaki gleyma?
á nokkur blóm hin bleika jörð,
sem biðji þig að halda vörð?

Þau vakna bráðum björt og glöð,
á blíðum degi sólarheitum,
í lundum, hlíðum, hæðum, reitum,
og drekka vorsins daggar mjöð;
er sólin gengur vörm að viði,
þau vilja mega blunda í friði
og heyra gráta hvolfið blátt
í húmi nætur ósjálfrátt.

Svo á hún líka önnur blóm,
er einatt hjúpast myrkri svörtu,
vor gömul, ung en íslenzk hjörtu,
þó beri stundum blöðin tóm,
því fáir kunna hið fagra að meta,
því farsældar ei notið geta,
þó leynist stundum lilja hrein,
í lágum mosa bak við stein.

En sástu þetta sama blóm,
á svölu vetrarkveldi tárast
og manstu hvað því sveið þá sárast?
að þekkja hin svo þur og tóm,
en sólarljósið lánað getur
því líf, er dó um kaldan vetur,
þó fær það aldrei aptur bætt
mjer æskustund nje sárið grætt.

Jeg ljek mjer fyrr við lítil börn,
af ljósi vors er tók að hlýna,
hve fljótt þeir sæludagar dvína,
sem aptanblik á blárri tjörn,
í fylgsni hafs sem falli straumur,
svo flýgur burt vor æskudraumur
með tilfinninga- tárgum -blæ
að tímans djúpa reginsæ.

Með sædjúp augu, sólbjart hár,
en sorgarblæ um fölan vanga,
þjer lengra var ei leyft að ganga,
far vel! mín æska og eig mín tár, —
frá vetrarhimni vona minna,
skín vafurlogi drauma þinna.
Mjer verða gefin vorkvöld hljóð,
að veru þinni' eg syngi ljóð.

---

## Jón og Bjarni.

Þeir voru bræður Bjarni' og Jón
og báðir vænstu drengir,
en líkir mjög í lund og sjón;
þó lægri fyndust engir.
Því Jón var enn þá undra smár,
í axlir náði Bjarna,
þá fyllt þeir höfðu átta ár,
sem englar þóttu barna.

Þeir lærðu skript og lestur vel,
ei lengra var þá farið,
en grjetu lítt, þó gerði jel

af grimmdar frosti barið,
þeir fúsir voru' að vekja leik,
þó væri snær á brautum;
þeir furðu snemma fóru' á kreik
ef færi gaf á skautum.

Svo leið og beið þeir ljeku sjer
og lífsins nutu glaðir,
og tíndu' á sumrin blóm og ber,
og byggðu húsaraðir;
þó styttust dagar, dæi rós,
ei drengir vetri kviðu,
þá hrifu sólbjört himinljós,
þeir hljóðir vorsins biðu.

Er dimma tók um dal og sund
og dagur hvarf þeim rjóður,
þeir sátu marga sæla stund
hjá sinni góðu móður,
hún sagði þeim af sjúkri rós
og sálinni yndislegu,
hún fræddi þá um ljóð og ljós
og lífsins duldu vegu.

Um fleira margt hún fræddi þá
um fiska, naut og kindur,
um fagran sjó og fjöllin há
þar flögrar norðanvindur,
hún sagði þeim hví bliknar blóm
og brosað nýfætt getur
og hvernig fyrir feigðarklóm,
það fellur næsta vetur.

Hún sagði þeim um sjálfan guð,
hinn sanna', er öllu rjeði;
þú hreina barnssál hálfvöknuð
til heimsins spilltu gleði,
hvað fannst þjer hreinna en móðurmál
um meistarann frá hæðum,
er vakti þinna vona bál
og veitti nægð af gæðum?

Þeir fræddust, lágu og ljeku rótt,
við ljúfrar móður hjarta,
en bernskan líður furðu fljótt,
með fegurð hreina og bjarta;—
nú faðir ungra drengja dó —
ei dauða neitt má varna,
svo þraut hin fagra frelsis ró
eins fyrir Jóni' og Bjarna.

Það vor, sem faðir veikur hnje,
þeir voru fermdir báðir,
en lítið var hins látna fje
því ljúfar brustu náðir,
þeir kæra móður kvöddu senn
með kossi, heittelskaða;
þeir vildu gjörast vinnumenn,
þeim veittist brátt sú staða.

Og blessun fylgdi bræðrum tveim,
þeir bernsku-þægðar nutu.
Já, allir sóttust eptir þeim,
svo úrvals kjör þeir hlutu,
þá elti lánið, lítil börn,
þeir lærðu fljótt að hlýða.

Hve sterk, hve góð og vegleg vörn,
er ver oss þraut og kvíða!

En Bjarni fluttist brátt að sjó,
því betra sagt var þaðan,
sem aðrir hann á djúpið dró,
með djarfan hug og glaðan,
en hjer var eigi lánið ljeð
þeim lipra þægðarmanni,
þar lifð' 'ann drykkjumönnum með
í meginspilltum ranni.

Já, þó hann hefði þrek í lund
og þó hann stilltur væri;
hann girntist villtra vina fund
og vín, þó leynt það færi,
hann þótti frjáls og fjelagsgjarn,
sem fyr í móður-ranni,
um síðir varð hið sæla barn,
að svæsnum drykkjumanni.

En Jón varð bezti bóndi' í sveit
og Bjarna lífskjör frjetti,
hans bróður ást var enn þá heit,
sem arm til hjálpar rjetti,
hann föllnum bróður bauð til sín,
er boð hans feginn þáði
og aldrei síðan eitrað vín,
hann optar bragða náði.

En móðir beggja' af gleði grjet,
nú gat hún róleg dáið.
Fyrst Bjarni þannig blekkjast ljet,

þjer, bræður, af því sjáið
hve voðalegt er vínsins tjón
á vegum jarðarbarna.
Til sinnis verum söm og Jón,
ef syndgum líkjumst Bjarna.

Já, hjálpum þeim, sem hjer á bágt,
þó hann sje spilltur maður,
ei dæma breyzkan bróður átt,
þitt brjóst sje griðastaður
þíns fallna vinar; styrk og styð,
en standirðu' einn í þrautum,
og berjist freka freisting við,
þá flý af glaumsins brautum!

---

## Frá E. Í. til G. S.

Árdags sól úr austurvegi,
endurlypti sinni ferð,
blessun yfir blíðum degi,
bronsuð lýsti geisla mergð,
reis úr dvala fjólan fríða,
frosnar hlóu jökulbrár,
o'n á móður brjóstið blíða,
blómin felldu gleðitár.

Mjer á sængurbúnum beði
brosti fögur morgunrós,
hreina, blíða himingleði,
hvarma þinna sýndu ljós,
bros um vanga ljúft þjer ljeku,
lundin var svo mild og kát,

angri þrungin að eins vjeku
einatt fyrir stuttum grát.

Aldrei fengu á augum þínum
ama tárin speglað sig.
Fagra barn, að barmi mínum,
blíða, grátna vafði' 'eg þig
nú í mundum móður þinnar,
mikið áttu sælli stað.
Hlýjum kossi kveðju minnar,
kysstu hana. — Mundu það.

Hamingjan þjer götu greiði
gegnum sælu, tár og þraut,
gæfusól í sumar-heiði,
signi þína fögru braut!
Vina þinna vegleg prýði
vertu, litla elskan mín,
meðan byggjast lönd af lýði,
lifi blessuð minning þín.

---

## Vorið.

Nú ljómar vorsins ljúfa stund,
nú lifna fölnuð blóm,
nú varpa fuglar vetrarblund
með vinarhlýjum róm,
nú fagnar allt, sem fagna kann
og flytur guði hrós,
því nú er gjörvöll náttúran,
sem ný-útsprungin rós.

Er ljómar vorsins ljúfa stund,

mjer lýsir gleðisól
og engilvængjum lyptir lund
á lífsins sjónarhól
og skoðar synd og sorg í draum
og sjerhvert mæðuslys,
en yndislegan lífsins glaum,
sem ljett og blævakt fis.

Svo líði vorsins ljúfa stund
og lifnuð deyi blóm,
jeg veit að seinna' á sömu grund,
jeg sama hreppi dóm,
ef farsæld nokkra flyttu' í sjer,
mín feigðargöngu spor,
þá veitti sanna sælu mjer
hið sigurkrýnda vor.

---

## Syrgið mig!

Þú akurlilja beygð og bleik,
þú barn, er saklaust grætur,
þú dapra ljós með lífsöfl veik,
þið löngu' og dimmu nætur,
þú foss á bjargi feikna hár, —
þá feginn lýk jeg árum,
æ, látið ykkar ljúfu brár,
mig lauga síðast tárum.

---

## Að kvöldi dags.

Er verkþreyttum starfsmanni dagsiðja dvín,
þú dýrasta, hjartkæra frændbyggðin mín

á hálfslitna strengi við húmfaldinn þinn,
að hryggjandi saknaðarljóðum jeg vinn.

En sólin í vestrinu hnígur í haf
og hverfur af fjallsbrúnum kvöldroðans traf,
jeg sje þig míns kærleika sárþreyðust rós
í sólgeislum hinnstu jeg kenni þitt ljós.

Of döggvuðum blómum. er læðist um laut
hin ljettfleyga þoka við miðnætur skaut,
hinn öfuga feril, sem leiðast jeg læt,
í logninu blíða hjá rósunum græt.

Uns brosandi morgunn um fjalltinda fer
og færður í gullskikkju jökullinn er,
með spánnýjum vonum til vinnu jeg geng
og vonirnar lækna hvern bilaðan streng.

---

## Niðurlag á brjefi frá K. Þ. til J. S.

Svo get jeg ei fleira í frjettum þjer sagt,
nje fjörgandi málsgrein í brjef til þín lagt,
því fá eru frásagnarefni.
Með ástkveðju brýt jeg svo brjefið til þín,
en brjefmiða frá þjer jeg óska til mín
í vermandi geislum er vorsólin skín,
og vekur hið fölnaða af svefni.

Nú líður að sumarsins sólskæru stund
og senn spretta rósir í hvanngrænum lund,
sem vökvast af vorskýja tárum.
Og þá finnst mjer æskan svo hrein og svo hlý
og himininn, veröldin indæl og ný

og þá sjer ei barnshjartað þoku nje ský,
sem þrengst geti' að framtíðar árum.

En skýin, þau hyljast við framtíðar fjöll,
þar talin er myrkviðri lífsbrautin öll,
þeim frjálsborna æskunnar anda;
sín skrúðklæddu vorblóm hann skoðar með ró
og skínandi veröld, sem frið honum bjó.
Hann þekkir ei bölheimsins blindskerja sjó,
er byltir svo mörgum í vanda.

Því æskan er sólskin og sumarstund blíð,
og saklaus og róleg er bernskunnar tíð,
í vorblíðu vonar og gleði,
er geislarnir falla svo blítt og svo beint,
en bláhvelfda æskunnar vorloptið hreint,
það andar í hjörtun svo ljúft, en þó leynt
þeim ljósblæ, er hugsvalar geði.

En, ljúfasta vina, þig leiði guðs náð,
þín lífstíð sje himneskri vorfegurð stráð —
í geislandi grátskúra heimi
það skiptist á: sorgir og sæla og tár.
En sólfögur eilífð svo hrein og svo klár
þjer brosandi ljómi, þá enda þín ár,
í aldýrðar himneskum geimi.

---

## Þótt æfi mín verði, sem ísjaki köld.

Þó æfi mín verði, sem ísjaki köld,
jeg ástina brennandi geymi.
Já, þangað til síðasta komið er kvöld

þó kærustu vinir mjer gleymi,
jeg elska hið grátblíða, göfuga' og sanna
og glitrandi hrímdaggir járnkaldra fanna.

Jeg elska þig grátblíða, sannauðga sál,
er sorginni rólega tekur,
í augum þjer stafa jeg elskunnar mál
sem engan frá gleðinni rekur.
Þú vekur mig ylgeislum viðkvæmni þinnar
á vonandi leiksviði barnæsku minnar.

Jeg elska þig göfuga, guðhrædda brjóst,
er gengur á kærleikans vegi;
þú dómana mýkir og mannlegan þjóst
og mótpart þinn sakfellir eigi.
Þú kenndir mjer ungum á guðsbraut að ganga,
þó götuna veldi jeg þrásinnis ranga.

Jeg elska þig, sannleikans eilífa raust,
sem ávallt til betrunar leiðir,
og mannanna ranglæti miskunarlaust
úr myrkranna hyldýpi neyðir.
Þú sýnir mjer strangleikans heilögu heima
og hvetur mig bernskunnar sakleysi' að geyma.

Jeg elska þig stálkalda, stórhuga sál
er strýkur þú tár þjer af hvarmi,
þá skín mjer í hjarta þíns bölhita bál,
sem blikandi náttsólar varmi.
Þú segir mjer veikum mín harmtár að hylja,
en hugglöðum stríða með sigrandi vilja.

Þú glæðir minn kærleika, göfuga lund,
er grimmdinni í meðaumkvun breytir;

þú stælir og hvetur mig, stálkalda mund,
mjer strangleik hið alsanna veitir,
en grátperla trúarblóms guðhræðslu sprottins
er gimsteinn á meistarabyggingu drottins.

---

## Fuglinn á sandinum.

---

Hví siturðu, smáfugl á sandinum hjer,
þú sjer þó og veizt, hvað hann gróðurlaus er.
Hví flyturðu klettinum kvæði?
Þeir heyra þig eigi nje vikna hjer við
þinn vorsæla, himneska, laðandi klið
um sakleysi, vonir og sælu og frið,
og sumarsins margbreyttu gæði.

Hví flýgurðu' ei heldur að fjallhlíðarrót
er faðminn sinn hlýja þjer breiðir á mót,
þar ylmandi smáblómin ungu
í litklæðum fögrum, með blikandi brá,
nú brosandi lypta sjer moldinni frá,
úr ljósgeimnum vekjandi lífgeisla-þrá,
og ljóðin af vinarins tungu?

Þú fer ei að mannanna sjervizkusið,
er sækja' um hið fánýta' og keppast þar við,
sem glepur og ginnir og neyðir.
Þú nýtur hins þögula', er náttúran á,
ei neins þess, er mennirnir girnast að fá,
með hamslausri frekju, með heimtandi þrá,
er hjartnanna viðkvæmni deyðir.

Á náttsvölum morgni jeg fet fyrir fet
hjer ferðast um veginn, og rólegur get

hins vorfagra víðsýnis notið,
en ljóðin þín, vinur, þau hrífa mig helzt,
því hjartanleg vorþrá í röddinni felst,
sú tilfinning getur með árum ei elzt
nje óminni gleymskunnar hlotið.

Þó einn sjertu, vinur, jeg veit þú ert frjáls,
og vorblóm þín elskarðu meir en til hálfs,
það alls enginn dæmir til dauða,
því heimur ei situr um sakleysi þitt,
í svartnætti spillingar grefur hann mitt
og reiknar til peninga rjettlæti sitt,
en ranglega dæmir hinn snauða.

Jeg veit, þó að lífið sje leiðindum háð,
er ljósblómum friðarins hvervetna stráð
á vegu hins vandaða' og »fróma«,
í sorgblíðri viðkvæmni sælast því er,
um sand minna hugsana' að berast með þjer
og heyra þar vorblæinn hvíslandi' að mjer,
um hlutskipti fölnaðra blóma.

---

## Trú mín.

Þú vinur minn, sem veizt og skilur ekki
hvern veg jeg geng á trúarinnar braut,
mín vilta skoðun veikan svo ei blekki,
jeg vil þjer opna hennar móðurskaut.

Jeg trúi' á guð, sem hefur skapað heiminn,
á hvaða degi? mjer er sama um það,
því hvernig sem hann gjörði' í fyrstu geiminn,
jeg get ei löndin fært úr sínum stað.

Jeg trúi því, að jörðin, sem vjer sjáum,
hún sje hið minnsta' af verkum skaparans;
en upphaf lífsins ei vjer skilið fáum,
það aldrei grípur hugur nokkurs manns.

Mitt traust á guði' er í því innifalið,
hann alla daga styrki' og blessi mig;
en götu mína geti' eg sjálfur valið
unz gæfan leiðir mig á hærra stig.

Að trúa því, að sumt er mæðir sárast,
það sje af ráði drottins ákvarðað,
jeg hef svo opt af heimsku minni tárast,
en hneyksli væri' að kenna drottni' um það.

Hið fyllsta lán er friður samvizkunnar,
í »frómum« hjörtum bústað velur hann,
því allar dyggðir af hans toga spunnar
þær eiga líka skylt við kærleikann.

Jeg trúi því, að frelsarinn sje fæddur
og fyrir mig hann líka dáinn er;
jeg trúi því, að guð sje miskunn gæddur,
sem geti því, og vilji hjálpa mjer.

Jeg trúi því, að tímanlegur dauði
oss takmarkaður sje af drottins hönd;
jeg skoða hann sem lykil að þeim auði,
sem okkur geyma fegri' og betri lönd.

Þó blinduð hjátrú beri þrælasvipur,
og byrgja vilji skynseminnar ljós,
en trú mín kunni' að vera »viðsjálsgripur«
hún verður ætíð lífs míns bezta rós.

Mín von og ást, þær veikjast stundum báðar,
ef viðreisn trúar ekki hjálpar þeim
af margvíslegu mæðuböli þjáðar,
því mína veiku trú, ó, drottinn geym!

---

## Úr brjefi til systur minnar.

Því sælla' er að finnast, því lengra sem líður,
loksins mun drottinn þá bænheyra mig,
ástmildur kærleiki önd minni býður,
elskaða systir, að heimsækja þig;
en jeg, eins og fleiri, við forlög má berjast
fjarlægur vinum á óþekktri leið.
Barnslega hjartað í vök á að verjast,
vonglatt þó horfir á órunnið skeið.

Vonandi barnstrú, í viðkvæmu geði,
varpar á lífsskugga sólbjörtum yl;
tárin, þau breytast í brosmilda gleði,
burtrunnin drottins í miskunnarhyl.
Frelsandi lífsstraumar fljóta svo þaðan,
tríðandi, styrkjandi grátveika sál,
þessi mun sannfæring gjöra mig glaðan
gleymast þá vorbrygði, sorgir og tál.

---

## Á gamlárskvöld.

Nú hið síðasta kvöld, þessa umliðna árs,
vjer þig áköllum, himnanna ljós.
Mikli, náðugi guð, heyr þú barnanna bæn
er nú brosandi syngja þjer hrós.

Hvað er mannanna stjórn, þeirra metorð og völd
á við mátt þinn, er alheiminn skóp?
Til þín, líknsami guð, eins og biðjandi börn
hefjum bljúgir vort þakklætis hróp.

Mikli, dýrðlegi guð, þú ert sálnanna sól,
hinum sorgmæddu hjálpar þín náð,
og þó dimmt sje í heim, verður heiðskýrt og bjart
ef þjer huggláðir felum vort ráð.

Vertu kærleiki guðs, okkar bindindis blóm,
vertu byggjendum traustasta skjól,
okkar helgasta vörn móti heimskunnar dóm,
vertu hugþjáðum líknandi sól.

Greiddu framsóknarbraut okkar fámennu þjóð
gegnum fávizku, spilling og synd,
vertu hjartnanna guð, er þjer helga sitt blóð,
vertu hreinleikans fegursta mynd.

Hnýttu kærleikans bönd milli bræðranna' í kvöld,
— þú ert bindindisfrömuður vor. —
Glæddu hjartnanna ljós, vermdu hugskotin köld,
gefðu hugdeigum óbilugt þor.

Brjóst og heimili vor sje þjer helguð í kvöld,
þú, vort hjálpræði, blessun og skjól,
svo hið komanda ár vaxi kærleikans blóm,
undir kristninnar víðfrægu sól.

---

## Gengin von.

Á arma þína ungan tókstu mig
sem einstæðingur lifði' í veröldinni

og kenndir mjer að treysta' og trúa' á þig,
og tár mín gjörvöll helga veru þinni,
en, æ, þú hefur illa brugðist mjer,
því aldrei framar verður hægt að gleyma,
jeg á svo mikið illt að gjalda þjer
sem áður gott, er sólskin ljezt mig dreyma.

Þú gengur bráðum allra vega veg,
jeg vil — og má — ei þig til lífsins kalla,
þó varstu hrein, svo góð og guðdómleg,
hve gott var löngum þjer í arm að falla.
Jeg sálarvana sje þitt dauðastríð,
þig sorgin grefur dýpst í hjarta mínu,
jeg felli tár svo heit og himinblíð,
og hrein og saklaus yfir leiði þínu.

---

## Liljan.

Ástarljúfa liljan mín,
liljum öllum fegri,
blómgist ungu blöðin þín,
bros þú yndislegri.

Þegar vökna þreyttar brár,
þeim, er sorgir líða,
af þjer drjúpi daggartár,
draumavorsins blíða.

Liljan mín, þú enn þá átt
unga rót og hreina,
blóm þín geta hafist hátt,
á hlynum smárra greina.

Geislum kætt, er brosir blítt,
búin skarti fínu;
ó, að jeg mætti þrýsta þýtt
þjer að hjarta mínu.

Sár þú græða mundir mörg,
og mína lífsvon tryggja,
ljetta þung og þögul förg,
þar sem óhreyfð liggja.

Hjúpuð dögg í helgri ró,
hulin tjaldi nætur,
yndislegust ertu þó
er þú tárum grætur.

Með þjer líða leyf þú mjer
lífsins fyrstu harma,
mína sorg það burtu ber,
blikar sól um hvarma.

Þú ert blóm á grænni grund
af geislum hennar vakið,
en jeg er strá af sterkri mund
stormi lífsins hrakið.

Þú hefur enn þá von um vor,
vöxt og sumargleði,
en mitt er gjörvallt þrotið þor,
þögul sorg í geði.

Þegar jeg á feigðar för
fell í dauðans hendur,
þá við indæl þroska kjör
þú í blóma stendur.

Hjá þjer lifa lífs míns haust,
liljan munaþýða,
vakti nýrra vona traust,
veitti sælu blíða.

Hryggur þráir hugur minn
hels við dúrinn stríðan,
að í fagra faðminn þinn
falli' eg, deyi síðan. —

---

## 21. maí 1900.

Jeg endaði langan og erfiðan dag
með einveru helkaldrar nætur.
Í kyrrðinni tók jeg að hugsa minn hag
við háfjallsins ilmandi rætur,
svo gæti þar's drottnaði guðleg ró
nú grátið það allt, mjer í huga bjó.

Að baki lá æskunnar brosandi þor
með bernskunnar dýrðlegu vonum,
og dalurinn fagri með vermandi vor,
nú var jeg sem útlagi' í honum,
og tárin mín heitu jeg falla fann
sem forðum, er grátinn jeg kvaddi hann.

Nú hlaut jeg að skilja við Mýrdalinn minn,
hvort mundi það hryggja' eða gleðja?
Nú var jeg, ef til vill, í síðasta sinn,
mín sætustu vorblóm að kveðja.
Hvers átti' eg að sakna? hvað einkum þrá?
Hver orsök til burtfarar minnar lá?

Hvers átti' eg að sakna? eg elskaði fátt
hjá æskunnar fjallkrýndu völlum,
en væri það nokkuð, þá var það of hátt
og vaxið hjá tignari fjöllum,
svo barst það í fjarlægð að bláum mar
og blómgast og nýtur og eldist þar.

Fyrst, vonsvikna hjarta, þín heitasta þrá
var horfin, sem skýmyrkvuð stjarna,
sú hreinasta' og bjartasta er himininn á,
en hrímflókar dimmgráir varna.
Hvers óska jeg skyldi, hvað aptur þrá,
þar ekkert mig langaði framar að sjá.

Því hlaut eg að flýja þig, dáðlausa drótt,
að dimmt var í hugskoti þínu,
þitt sjálfselsku-myrkur var svartara' en nótt,
þú sakleysi gjörspilltir mínu,
svo aldrei þess framar jeg bætur bíð,
en böl fyrir skinhelgi þína líð.

Þú lastaðir, ættbyggð, þau verk sem jeg vann,
— þú vildir ei lágborna soninn. —
Þig forsmáður, grátandi fjarlægist hann,
því fegursta töpuð er vonin:
að fá þig úr heimskunnar læðing leyst,
og lýðfræga minning þjer geta reist.

Þá hóf jeg til stjarnanna brosandi brár
því bjartari vonir mig dreymdi.
Svo þaut jeg á fætur og þerrði mín tár,
og þögulli minningu gleymdi.

Jeg vissi þann guð, er mitt bætti böl,
svo breyttist í fögnuð mín hugarkvöl. —

## Alþingisvísa 1901.

Stjórnfræðingar verk sín vanda,
»Valtýingar« sníða »bót«
Íslendingum heimskum handa,
»Hannesingar« spyrna mót.

## Leiðsla.

Ó, ber mig nú hjeðan í Mýrdalinn minn,
þú minning frá liðinni tíð;
mjer opnaðu ljettfleyga ljósarminn þinn,
jeg ligg hjer og vonandi bíð.
Þú kemur, jeg fagnandi fell þjer í skaut
svo ferðumst við dreymandi hljótt;
hún Jökulsá getur ei bannað oss braut
við brosandi hræðumst ei vatnanna þraut
um nýrunna miðsumarnótt.

Við þurfum ei reiðskjóta þó hún sje ströng
nje þaulæfðan leiðsögumann.
Að Sólheimum þaðan ei leiðin er löng
ef losnum við meinvættinn þann;
á sandinum Hólsá ei hófskeggi nær,
jú, hún er þó stundum svo djúp,
en við erum beljandi vatnsöldum fjær,
því við förum ofar og hraðar en þær
í dýrðlegum draumanna hjúp.

Þá sjáum við blómfagurt Sólheimanes,
og sitjum þar dálitla stund.
Jeg sigraða fortíð á fjólunum les,
er fæðir hin margþjáða grund,
því flest hafa straumvötnin farvegum breytt
að frádregnum Sólheimalæk,
hann framvegis gróðri þar fær ekki eytt,
Til Fells hefur Ögmundur Klifandi veitt,—
hún nú er frá nesinu ræk.

Við megum ei dvelja, því háaustri hjá
við horfum á prestssetrið Fell.
Frá sólbrennda nesinu svífum við þá
um sandinn, þars Klifandi fjell,
hún rennur þar enn þá sem eyðandi norn,
frá ískaldri jökulsins rót,
hún fer yfir brekkur og blómengi forn,
í bakkana myndar hún víkur og horn
og ryður þar grjóti' yfir grjót.

Þar fyrst skín að morgni, þar seinast dvín sól,
þar sitjum við langt fram á nótt,
og »völvunnar« minnumst, hún aldur sinn ól
hjer áður við blómanna gnótt
við reikum að djúpinu, hjer er 'ún heygð,
og hjerna' á 'ún reitinn sinn ein
í blómauðgu vorskrúði fjarlægan feigð,
hann fæst ei til slægna, þó jörðin sje leigð,
því ákvað hún álaga mein.

Hvað syrgir þú, minning? jeg sje þú ert hljóð.
um sólbjarta, heiðskýra nótt.
Er hjer ekki gaman að heyra mín ljóð?

æ, hvers vegna' er þjer ekki rótt?
Þú gjörir mig hryggan, um grátandi hvarm,
nú glitra mín saknaðar tár.
Þú ein veizt hvað særir minn brimþrungna barm,
ó ber það á gleymskunnar hyldýpis arm,
þú ýfir, hún sykrar mín sár.

En hjer er ei staður að hugsa' um þann draum,
er hvergi mun ráðningu fá.
Við stöndum á fætur, því stundin er naum,
á Steigarháls komum við þá,
en kveðjandi horfum í krókinn um leið
á Keldudal, Álptagróf, Holt,
á brosandi jökul og háfjöllin heið,
á hvanngrænar engjar og túnin svo breið,
við gapandi gljúfranna skolt.

Að Hafursá síðast á veginum var,
því við höfðum nærri því gleymt,
við sáum ei vatnið á sandinum þar,
í sannleika hefur oss dreymt;
En Búrfell við sjáum, það blasir á mót
ef beinum á vinstri hönd sjón,
Þar barði jeg þrásinnis barnungur fót,
er beljurnar rak jeg um hlíðar og grjót,
sem opt vinna túnunum tjón.

Jeg einatt var lúinn að eltast við þær,
en áfram við höldum í nótt,
þá komumst við Brekkum og Kvíadal nær
og Kaldranes sjáum við fljótt;
við könnumst við skuggalegt Kerlingargil,—
hún kafnaði' í vatnsbrunni þar.

Frá brekkunum líðum vjer Brandslækjar til,
jeg bregða mjer snöggvast í »dalina« vil,
þars áður jeg unglingur var.

Í Stóradal góðbóndi vellauðgur var,
á víðfrægri landnáma tíð,
því dalinn sinn átti' 'ann og engjarnar þar,
og úthaga landflæmi víð.
Í bænhúsi víðfrægði' 'ann verndarans hrós,
það votta' okkur rústir þess enn,
en niðjar hans dreifðust sem náttbjarmarós,
um Neðradal, Kaldranes, Breiðuhlíð, Fjós
og urðu þar ágætir menn.

Við svífum fram Nesdal, hans sviptignu brún,
við sjáum og hlíðarnar þar,
á Skagnesi heilsa' okkur hólar og tún,
því hjerna jeg glaðastur var,
Þó nú sje jeg einmana útlægur gjör,
frá æskunnar draumblíðu sveit,
hjer brosandi drakk jeg mitt barnæskufjör,
þó breytileg væru mín uppeldiskjör,
mín barnsþrá var heilög og heit.

Við Nesleyti förum, þó sjáist ei sól,
og sje þar á nóttunni reimt;
við Skammárdal sjáum og Skammárdalshól,
þá skal eigi Deilará gleymt.
Frá sandblautu »vöðlunum« greinum við Gil,
þann gestrisna, járnvarða bæ,
að Hvammi sem fljótast þó halda jeg vil,
því heitið var ferðinni bæjarins til,
í vestlægum vornætur blæ.

Þar nemum við staðar, þó nóttin sje björt
því nú er jeg loks kominn heim.
Í þröngbýla »hverfinu« þokan er svört,
ei þangað mig nauðugan teym,
ef Kyrkjugarðs menjar þú sorglegar sjer,
jeg systkini' og foreldra' á þar,
að renna til baka svo ráðlegg jeg þjer,
við Reynisfjall stundum hann »svipóttur« er,
þú fær ei hjá framliðnum svar.

Frá Hvammi var gaman að ganga' upp á brún
er glitraði vordöggvuð rós,
þar getum við horft yfir heiðar og tún
og hafið og lognkyrran ós,
til norðurs er Hvammsdal og Selhól að sjá,
við Sauðafell Hestkambur rís,
þar Grænafell sjáum við Gæsatind hjá,
sjer grafdal að baki hans stöðuvatn á,
opt hjúpað í helköldum ís.

Ó, man jeg það forðum á Miðtunguhól,
jeg margopt á fjallleitum beið.
Jeg kvað þá um liljur og komandi sól,
er kysstust á dalbúans leið,
svo bröguðu ljóðin mín bergrunnar ár,
hin beztu þó hverri jeg söng.
Úr fjalli til sævar þær fluttu mín tár,
og fáguðu svalar mín blæðandi sár,
ei fannst mjer þó fjárbiðin löng,

Af Hrafnatind einatt jeg horfði' yfir frón,
um háfjöllin töfrandi fríð.
Ó, hvað það var indæl og svipmikil sjón,

að sjá það um vorkvöldin blíð,
er Hvammsdalur fagur und ljósroða lá,
með litfögur skínandi blóm,
hjá ærfjenu ljeku sjer unglömbin smá,
en endur og vorfuglar lækjunum hjá,
með hreimþýðum, hrífandi róm.

Hið fremra var byggðina' og sjóinn að sjá,
þar sælan í dölunum hló.
Í Heiðardal speglandi Heiðarvatn lá, —
þar hindrar opt mýbitið ró;
en fagurt er vatnið og veiðisælt mjög,
og vordýrðin tilþrifarík,
þar sunnar ber Höttu við heiðskýjadrög,
og heim þaðan skiptast á graslendi' og flög,
að verzlunarstaðnum í Vík.

Um Arnarstakksheiði þeir ferðuðust fyr,
til fundar við lítt kristna þjóð,
þar opnuðust Þangbrandi dauflegar dyr,
hann dapur á bakkanum stóð.
Þeir ætluðu sumir að sökkva' onum þar
og sjá, hve hans trú væri sterk;
en hesturinn tröllaukinn heiðingi var,
því hlaut hann að sökkva' í hið botnlausa far,
en vættirnir vernduðu klerk.

Þá göngum við Sofndali og Hrosstungu-háls
og horfum svo norður á Sker.
Í Lönguhlíð fannst mjer jeg löngum svo frjáls,
jeg lengst norð'r á Miðhöfuð fer,
þá sjáum við Galtárdal, Ofanferð í,
við ei skulum hætta' okkur þó;

nú jökulinn ber við hin blæhreyfðu ský,
svo bjartan og fagran við getum á ný,
hjer lífinu lifað í ró. —

Því margt er hjér veglegt á vordegi' að sjá,
í vesturátt heiðar og fjöll,
í austrinu sandinn og sandvötnin grá,
í suðrinu mannvirkin öll;
frá norðri skín jökullinn heiður og hár,
sem hlífðarskjöld byggðinni ljer,
hann framleiðir straumharðar, ískaldar ár,
sem engjunum spilla, sje farvegur hár,
því »Fellið« sín brotmerki ber.

Svo göngum við Skjólkamb og »skerjunum« frá,
við skundum fram Áverkadal,
hinn fjölgrýtta Sofndalshaus sjáum við þá,
í suðvestur halda nú skal,
um Selkrók og Gatnahraun ganga jeg vil,
og grænklædda Hvammsheiði sjá.
Þar áin sjer myndar hið geigvæna gil
með gjótum og fossum og löðrandi hyl,
í Krákuból komum við þá.

Hjer byggði fyrr risi, þeir kölluðu' 'ann Krák,
er kunnu þá skröksögu vel.
Hann fjekkst hvorki' um erfðir nje arfleiðslukák,
því áður hann nálgaðist hel,
þá hjó 'ann úr berginu hávaxinn klett, —
þann heita þeir Krákustand nú. —
Hann efst upp á topp honum silfrið fjekk sett,
ei síðar til jötunsins hafa þeir frjett,
er geyma þá tröllauknu trú.

Svo göngum við þaðan úr gljúfranna sal,
er gilmunninn endar hjá stekk.
Í næði við hvílumst í Norður-hvammsdal,
hjer náttblíðan verður oss þekk,
er vaknar hin margbreytta minninga fjöld
um margt, sem fyr' löngu er skeð.
Þið hlægjandi danzið í hug mjer í kvöld,
í hugsjónabliki frá liðinni öld,
um fjölskrýddan blómrósa beð.

Of vestrinu hvílir á vindörmum ský,
á vængi þess náttbjarma slær.
Ó, hvað jeg er töfrandi hrifinn af því,
og himneski bjarminn þess skær;
en *h*vað býr í skýinu? Hagljeljahríð,
frá helþungri miðvetrarstund,
það hverfur nú óðum, en heiðríkjan blíð
nú húmtár sín fellir í blómgróna hlíð,
þá lifnar mín angraða lund.

Hjer átti jeg forðum mín fegurstu blóm,
sem fjörvana liggja nú bleik.
Þau öll hafa kalið fyr' örlagadóm,
við ójafnan fokbyljaleik;
jeg græt þau í kyrrðinni, græt hverja rós,
sem gæddi mig framtíðarþrá,
í húmrökkur breyttust mín björtustu ljós,
nú bjarminn er horfinn af framtíðarrós
þar eintómt er svartnætti' að sjá.

Nei, sleppum því umliðna, höldum nú heim, —
á heiðarfjöll roðanum slær,
í heilagri minningu, minning, það geym,

er mestrar þjer lífsgleði fær.
Við líðum hjá »syðra« við Loptsalaból,
þar lögfróðir halda sín þing;
á Dyrhólum Kári sinn kvikfjenað ól,
hin kjarkmesta stríðshetja' und íslenzkri sól,
og lengra þó leitum í kring.

Hjá Pjetursey nafnkunni hóllinn er hár,
þar höfðust við álfarnir fyr.
Þar átti sjer hjátrúin ógrynni fjár,
nú eru það lokaðar dyr;
því aldrei sjest snúran, sem eitt sinn var fest
í eyna, frá margnefndum hól,
með álfanna gullskrauti' er áttu þeir bezt,
og altarisklæðum af nývígðum prest,
sú dýrð er nú dottin úr stól.

Þá svífum við aptur til Seltjarnarness,
og setjumst hjá Valhússins stöng.
Að endingu vonglaður óska jeg þess,
hvort æfin dvín stutt eða löng,
að megi' okkur dreyma til Mýrdalsins heim
ef myrkvar í húsanna þröng,
og svífa' um hans indæla sólkrýnda geym
og syngja' yfir bliknuðum fjallrósum tveim,
vorn grátblíða greptrunarsöng.

---

## Orkt á nýjársdag 1897.

Í dag jeg byrja blessað árið nýja
með bænakvaki til þín, Jesú minn

Mjer ógnar hulinn skuggi sorgarskýja,
mjer skæran sendu náðargeisla þinn.

Í nafni þínu glaður geng eg veginn,
í gegnum lífsins unað, tár og stríð,
og herra minn, þjer fylgja vil eg feginn
á freistinganna hættulegu tíð.

Í nafni þínu nýja' eg eiðinn rofna,
mjer nafnið sífellt á hann bendir mitt.
Í nafni þínu síðast vil jeg sofna,
mín síðsta hugsun verði nafnið þitt.

---

## Skrifað undir brjef.

Þó blikni strá og fjólan fríða
og fönnin helköld nísti grund,
sje þó ljómandi sumarblíða,
mín systir, hver þín æfistund,
og eins og máninn unaðsfagur
uppljómar storð um næturhvel,
þín bíði frelsis bjartur dagur,
á bak við dauða' og mótgangs jel.

---

## Erfiljóð (brot).

Blessuð minning moldum þínum yfir,
merk og blíð í hjörtum vorum lifir,
blómin gráta grundu lágri á
geislum stafar sólin dýrðarhá.

Æskan blíða ber oss fram í strauminn —

beizkju lífs, og tárum vígða glauminn, —
ellin bendir fram á feigðarhyl,
feigðin, drottins líknar-húsa til.

---

## Á Felli í Mýrdal.

Hvar sástu fegra sólarlag?
hvar sumarangan dýrri?
hvar gafst þjer efni betra' í brag?
hvar blómin vænni' og hýrri?
Hvar fegri nið í fjallaþröng?
og fagurgrænni velli?
hvar brosti vor með sumarsöng
þjer sætar, en á Felli?

Þar jökulsvalar ultu ár,
með afli feigðar sinnar,
af frjódögg himins fáein tár,
mjer fjellu' um heitar kinnar.
Ó, milda vor! jeg man þá tíð, —
þig mjer er skylt að geyma,
þú endurminning ástarblíð,
þjer aldrei skal jeg gleyma.

Hin fáu tár, sem felldi' eg þá,
mjer Fellið helga síðan;
fyrst minning þess jeg enn þá á,
jeg á þar blómreit fríðan,
þar haustgræn smájurt hefur sig,
úr heiðarmosa bleikum.
Hvað aptrar mjer að elska þig?
Við æfi horfna leikum.

Þótt aptansvalinn andi kalt,
skín enn þá sólin blíða.
Við kvöldsins skin við skiljum allt,
sem skrykkjótt gekk að þýða;
við eygjum þar við andans ljós,
hvort öðru breytilegra:
Að ástin grætur gullsins hrós,
að gull ,er dyggðum fegra!

---

### † Ragnhildur Gísladóttir
(barn frá Felli).

Þú heimilisengill, þú heiðfagra ljós,
ó hví ertu látin?
og fölnuð sem nýsprottin, frostkalin rós,
af foreldrum grátin.

Nú hjer við þinn jarðneska helfararpunkt,
mjer heyrist þau segja:
»Ó, hjartkæra barnið mitt, hvað það var þungt,
að horfa' á þig deyja.

Við hugðum þú mundir ei hverfa svo fljótt
í helfararblænum,
æ, nú er svo þögult og napurt og hljótt
í nýreista bænum.

Í sál þinni friður og sakleysi bjó,
en sólskin á hvarmi,
svo ljettfleyg, á brosandi lífsöldum hló,
þjer lífsvon í barmi.

Þín lífstíð var sólbjört, en líðandi stund

í ljósvöku draumi,
því snemma' ertu kölluð á frelsarans fund
úr forlaga straumi.

Við bindum þjer látinni blómfagran kranz,
við burtfarar hliðin,
fyrst skaparinn vildi, þú hyrfir hans
í himneska friðinn.

Þjer elskan mín verður í himninum hlýtt
oss hretviðrið lemur, —
hjá nýlátnu skyldmenni brosir þú blítt
og bræðrunum þremur.

Það ljettir oss gönguna' á guðsríkis braut
í grátskúrum tíðar,
að fenginni huggun, að flúinni þraut,
við finnum þig síðar«.

Í fjarlægð við hryggjumst að frjetta þitt lát,
sem frændur og vinir,
við sólhvarf þitt foreldra sorgblíðum grát
við samtárumst hinir.

Oss grátendum svalar við grafkulda hjarn
þó geislarnir brotni, —
að vita þig sólfagra, saklausa barn
í sælu hjá drottni.

Því liljan hin unga við skammdegis skaut,
er skínandi brosti
nú mæðist ei framar af þungbærri þraut,
nje þjáninga frosti.

Við ískalt, en fljótgengið framtíðar hjarn
í fangelsi hnepptir.
Þó kveðjum þig grátandi, kærasta barn,
við komum á eptir.

---

## Heimþrá.

»Þar sem var mín vagga,
vil jeg hljóta gröf«. *Stgr. Th.*

Ó, leyf mjer austur, ljúfa vor
og leikum þar í dalnum mínum,
sem geymir indæl geislaspor
og guðdómleik í faðmi sínum;
æ, lyptu mjer á ljóssins væng
og lát mig nú, sem forðum dreyma,
við blíðrar fóstru blómasæng,
þar's barn jeg áður ljek mjer heima.

Þú sólarmilda sumarstund,
hve sætt þú brosir Mýrdals hlíðum,
þú vona minna gróðrargrund,
er geislum fyrr mig kysstir blíðum;
æ! sjáðu mína sáru þrá
lát sól þann kæra boðskap flytja:
»Nú útlægt barnið aptur má
til æskustöðva sinna vitja«.

Nei, svík mig eigi, sæta von,
æ, sveitin (mín) þú ert svo fjarri,
þú átt mig, fóstra, fyrir son,
jeg fæ þjer ei að dvelja nærri;
jeg aleinn sit um aptanskeið
við öldugjálp hjá snauðum ströndum,

og horfi fram á lífsins leið,
sem löngu dæmdur fangi' í böndum.

Þó framar aldrei faðmur þinn
með framtíð opnist sjónum mínum,
þá heimtu mig í hinnsta sinn
og hvíl mitt lík í faðmi þínum.
Þín vötn og fjöll og vog jeg kveð.
— Í vetur sumar fljótt mun breytast. —
Nú kyssi vor þinn blómabeð,
en blíðast þá, sem ann jeg heitast.

---

## Mærin unga.

Hún-var ekki »danzins« nje »ballanna« barn
hún barst ekki viljug með glaumnum,
því hugurinn frjálslyndi, framsóknargjarn,
ei fylgdi með ljettúðga straumnum,
er neyðir menn blindandi' að fylgja sjer fast
á flugjökum svikulla vona,
í fljótanda heimskunnar hringiðukast
þeir hverfa, það gengur nú svona.

Hún fæddist í blómríkum fjallhnjúkasal
við fegurðar töfrandi ljóma,
hún átti sjer hvergi svo ágætan sal,
sem algrænar hlíðar í blóma,
hún gat ekki fundið neinn fegurri danz,
en fuglanna' og rósanna' í blænum,
hún gat ekki fengið sjer fríðari kranz,
en fíflanna', er spruttu hjá bænum.

Og fjörugri sönglög hún hafði' ekki heyrt,
en hreimþýðu vorfugla lögin,
já, þeim gat hún ljóðunum unað og eyrt,
er ómuðu hljóðfæraslögin.
Hjá dansandi meyjum í dillandi söng,
er drengirnir hljóðfallið slógu,
þar undi' 'ún sjer heilluð við árfossaþröng,
er öldur í djúpinu hlóu.

Sjer kveldsvalinn blíður um brjóst henni ljek
og brennandi loga þar kynti,
en árnar og fossarnir færðu' 'enni þrek,
sem fast móti loganum spyrnti,
þá kvakaði lóan um kærleik og þrá,
en klettarnir bergmáli sungu
og jökullinn hlustaði hrímkaldur á,
með hrapskriðudynkjunum þungu.

Er dreymandi horfði' 'ún með hönd undir kinn,
á hafið sitt skínandi bjarta,
með skarplegri rannsókn hún skyggðist þar inn,
og skoðaði sædjúpsins hjarta.
Hún vissi hver kveldljóð það syrgjendum söng
því sjálf átt 'ún föður og bróður,
sem hvarf 'enni barnungri' í hafdjúpsins þröng,
og hjartkærri, syrgjandi móður.

Að leika sjer ánægð og líða með ró
það lærði' 'ún af blómunum ungu,
að fátækur hugrór að hlut sínum bjó
það heyrði' 'ún er fuglarnir sungu;
að standa sem bjargföst í stöðugri trú,
af straumþungu fossunum lærði' 'ún.

Til himins úr geislunum byggði' 'ún sjer brú
og bólmsveiga stjörnunum færði' 'ún.

Þá beygði' 'ún sig auðmjúk í barnslegri trú,
að blessuðu frelsarans hjarta.
Hve indæl og fögur var sambúðin sú
í sakleysis skrúðanum bjarta,
við altari blómanna' er kraup hún á knje,
í krossfesta spámannsins nafni!
sem vatnsdropi tær, var hvert tár sem þar hnje
frá trúar og kærleikans safni.

Því gat hún, er ógnuðu freistingafjöld
þær frá sjer með guðsorði rekið,
en þolað með hugprýði háðsyrði köld
og hörmungum rólega tekið.
Já, hún var í sannleika virðingarverð,
þeim veglegu mannkostum búin.
Jeg mætti' 'enni á reikulli framtíðarferð
af farsældarbraut minni snúin.

Hún sýndi mjer veginn, jeg sá hvar jeg stóð,
um síðir þá hvarf jeg til baka.
Ó, hafðu mitt þakklæti hreinlynda fljóð,
þú hefur ei vitund til saka,
þó hryggi mig stundum að hugsa til þín
er hljóðöldur berast með vindum,
mjer hreinlyndið fegur og fastheldnin skín,
en freisting í litbrygðamyndum.

Við sjáumst ei framar, en samt hafðu þökk;
nú sje jeg hvar fótspor þín lágu,
og því er nú lundin mín þögul og klökk,

að þú varst svo töfruð af »háu«.
Nei, það voru draumar, já, þökk fyrir allt
eins það, er mjer reyndist hvað sárast.
Í veraldarglaumnum ef verður mjer kalt,
þá vík jeg í einrúm og tárast.

---

## † Svava Runólfsdóttir
móðir höfundarins.

Mjer opið hjarta — svíður sár,
mjer svellur hryggð í barmi
og sorgar brennheit tregatár
mjer titra' á úrgum hvarmi,
í dag því ber jeg dapurt geð,
að dauðans hönd mig svipta rjeð
ástríkum móðurarmi.

Þú, sem mjer varst í öllu allt
á æskudögum mínum,
og þú, sem mundir mig ávallt
af móðurkærleik þínum;
þú sjer og reynir sælu þá,
er sjálfur drottinn himnum á
æ býður börnum sínum.

Þjer ótal blæddu angursár
um æfi kaldan vetur,
hve mörg þú felldir tregatár,
einn talið drottinn getur;
nú skín þjer sumar sælunnar
í sólarbústað gleðinnar;
þjer líður langtum betur.

Jeg græt að sönnu' en gleðst um leið,
og guð minn lofa' af hjarta,
er leiddi þig úr lífsins neyð
í ljóssins ríkið bjarta,
þú lofar gæzku lausnarans
í líknarmildum faðmi hans.
Þín sál mun skærast skarta.

Jeg ann þjer, ljúfa móðir mín,
þó moldin lík þitt hylji,
margblessuð lifi minning þín
við mig hún aldrei skilji;
hve feginn vildi' jeg fylgja þjer,
mig fýsir ei að lifa hjer,
en verði drottins vilji.

Hann er hið bezta athvarf manns
í angri lífs og hryggðum,
ef göngum vjer á vegum hans,
í von og trú og dyggðum.
Er líf mitt dvín, hann lofi mjer,
ljúfa móðir, að fagna þjer,
í helgum himnabyggðum.

---

## † Magnús Runólfsson

**bóndi frá Skagnesi.**

Um jörðina breiddi sig vermandi vor
með vinþýðum, hressandi blæ,
sjer mannshugir dreymandi mörkuðu spor,
á myrkbláum framtíðar sæ,
en bráðum skein ársólar blikandi ljós
úr bernskunnar framgjarna her;

það fóru svo margir þann morgun til sjós,
jeg man ekki nöfn þeirra hjer.

En einn varstu, frændi, með framgjarna sál,
og ferjuna drekkhlaðna' af von,
þá mæltirðu horfandi' á heiðbláan ál:
»Mig hamingjan á fyrir son,
fyrst ljósbrún af hugþráða landinu sjest
þó leiðin sje skerjótt og vönd,
og fleyið mitt alls eigi búið sem bezt,
jeg býst til að leggja frá strönd«.

Þá hafðirðu lífsþrek sem hætturnar bar,
en hjarta því samboðið? Nei,
því miður svo hvikult og viðkvæmt það var,
en vitsmuni skorti þig ei,
að gáfaður varstu það framtíðin fann,
og fyrr en þú lagðir af stað,
að værirðu efni' í hinn merkasta mann
já, margir víst hugsuðu það.

Nú sigldirðu' um freyðandi »hjúskaparhaf«,
það haf reynist mörgum of langt
þar brimsjói löðrandi' á bátinn þinn gaf,
er breyttirðu stjórninni rangt;
ei grjeztu þó höfuð af heimskum sveitt,
þig hæðandi níddu sem mest,
er þig eða málefnið þekktu' ekki neitt,
en þeir láta jafnan sem verst.

Ef skyggir á kærleikans rósfögru Rán
það rekur sig margur á sker,
það hvikulum veikir opt virðing og lán,

en valdast hve snemma það er,
ef presturinn klæddur í helgidagshjúp
með hringingu, ræðum og danz,
er búinn að helga' oss það dulmyrka djúp
ei dugar að horfa til lands.

En hvernig sem stýrðirðu og hvað sem þjer var
til hindrunar gegnum þau sund,
þú skynjaðir vel hvaða bára þig bar
frá bætandi lukkunnar mund,
en hver getur láð þó vjer siglum þann sjá,
þar sólskin á móti' okkur hlær,
ef hrekjumst vjer breytinga holskeflum á,
þó hentum oss viljandi í þær?

Hvort breyttirðu illa við bágstaddan mann,
er búið sitt ljeti þig fá?
Þar óbrigðult höggstæði heimurinn fann.
Hjá hvorum var orsökin þá?
Hann biðjandi, kvartaði' og barmaði sjer,
en breytti' 'ann þá vel, eða hvað?
Fyrst karltetrið vildi' ekki vera hjá þjer,
hvað varðaði heiminn um það?

Hver veit, þó hann rannsaki vegferil þinn,
hvort viljandi breyttirðu rangt?
Sá veit eigi mannlegan veikleika sinn,
er vogar að dæma þig strangt.
Hið innra frá sál þinni önduðu kalt,
þín óstyrku hviklyndisráð,
en þó var hún sanntrúuð, þrátt fyrir allt,
og því sinni fulltreysti náð.

Hver æskir að heyra þau útfararljóð,
sem eptir þig dáinn jeg kveð?
Þú ert ekki — greptraður, — grátinn af þjóð,
hjá gröf þinni verður ei sjeð,
hve fegnir þeir voru, sem vitjuðu þín
í veikindum lækning að fá*);
þess hrósverða minning hún skartlítil skín,
þar skyggir nú veikleikinn á.

Jeg vil ekki breiða' yfir breyskleika þinn,
er birtist í sorglegri mynd,
þjer huggaður aptur til frelsis jeg finn
þú fannst hvað var miskun og synd.
Því vona jeg: Borinn um breytingadröfn
frá bakmálgri, skammsýnni þjóð,
að síðustu lentur í sælunnar höfn
þú sjert, fyrir lausnarans blóð.

---

## Skilnaðurinn.

Á Eyjafjallajökul skein aptansólin blíð,
hún engilfögur var að níga' í sæinn,
með himneskri fegurð á vorsins vonatíð
á vængjunum ljósu bar hún daginn.

En fljótt hið ljúfa breytist, það skyggði krapaský
með skúrafalli á sólarljósið blíða,
í hverfandi geislum minn hugur fylgdi því,
að hafinu djúpa spegilfríða.

---

*) Magnús heit. fjekkst við lækningar og lánaðist vel. *Höf.*

Jeg hrifinn sá það breytast í hlýja daggarskúr
og heiðsvöl tárin ljeku' á kinnum mínum,
er kvöldroðinn sofnaði hafsins dvaladúr
á dagljósum geislafleti sínum.

En þungar bylgjur kváðu við kaldan ægissand
um kvöld og nótt, um skilnað tár og dauða,
en náttkyljan úrsvala ljek um blómgað land,
þars liggjandi *h*vildu hjarðir sauða.

Jeg vildi ferðast lengra, jeg var á suðurleið,
og vaxin meyja fullra seytján ára,
með leiksystur hennar, við hleyptum öll á skeið
í hafbylgjum lauguð geislatára.

Þær lifað höfðu glaðar, um ljúfa bernskutíð,
og leikið saman fram að þessum degi,
með hverfandi gleði var horfin stundin blíð
því hjer skildi þeirra björtu vegi.

Því önnur var að gráta sín björtu æskublóm,
sinn blíða föður, hjartakæru móður,
í fallandi straumiðu fossins töfrahljóm
sinn fannhvíta jökul, nýjan gróður.

En nú var allra sárast, að þurfa að kveðja þá,
sem þekkti beggja vonir, drauma' og hjörtu,
sem hlæjandi þerraði harmatár af brá
á hlæjandi draumavori björtu.

Já, þá sem hafði lifað og liðið alla stund
á líkan hátt, og notið sömu gæða,

og hugi, sem báru svo einkarlíka lund,
nú lýjandi sorgin vildi hræða.

Þær stilltu vakra jóa, þá áfram hjelt jeg einn,
ei augu þeirra fljóta sá í tárum,
hvað vakti þau innra? Það veit ei maður neinn,
jeg vildi' ekki kynnast neitt þeim sárum.

Þær kysstust mörgum sinnum, þar fjellu tár við tár,
en til hvers vil jeg á þann skilnað minnast?
fyrst hvoruga þekkti nje þeirra drauma' og sár.
Jeg þegjandi ljet mjer smátt um finnast.

En blessuð góða vonin, sem brosir jafnan hlýtt
þó breytast vilji kjör og hugir manna,
þar skínandi vakti sitt vorljós ástarblítt
í viðkvæmum hjörtum ungra svanna.

Sú von, að finnast aptur og tala' um liðna tíð,
nú tárin skína ljet á þeirra hvörmum,
því dreymandi barnstrú þeim stytti hugarstríð,
hún stráir á leið okkar geislum vörmum.

En vonin reyndist svikul, það var í hinnsta sinn,
þær vinur sjást ei hjerna megin framar,
því nú er önnur dáin, og kafrjóð fölnuð kinn,
en kveðjandi líksöng báran stamar.

Hví sleitstu ástarbandið, þú heljarsterka haf,
er hjarta munarblítt og saklaust deyddir,
sem vinunni í fjarlægð að gráti orsök gaf,
og glöðustu vonum hennar eyddir?

Nú hvílir önduð meyja við hafsins kalda brjóst,

en hin í fjarlægð sáran skilnað grætur.
Ó, farðu nú blessuð, þú sæl og saklaus dóst,
þig syrgjendur gráta' um hljóðar nætur.

En til hvers ljezt þú drottinn, það blíða morgunblóm
á björtu lífsins vori fölna og deyja?
Vjer getum ei lesið þín lög, þinn hulíðsdóm.
Ó, lát oss í trúnni glaða þreyja.

Þið sjáist hinu megin, þú mey, sem grætur enn,
þá misstu vinu, sem þú tárum kvaddir.
Vjer skiljum ei dómana drottins, heimskir menn
á dauðans og táranna landi staddir.

— — — — — — — — — — — — — —

Þá aptanroðinn ljómar um Kaldaklyfsársand,
hún kossahljóði bragar tveggja meyja,
er grátúrgum tárum hún fróvgar fagurt land,
sem fallandi glitra, kyssast, deyja. — —

---

## Staka.

Sárra nauða sofna völd,
sefast rauða undin,
þegar snauð og kvalaköld
kemur dauðastundin.

---

## Til móður frá syni.

Ó, elsku bezta mamma mín
hve milt var löngum heima,

við ástarblíðu brjóstin þín
um blóm og sól að dreyma,
þó visin lauf jeg vissi köld,
og vorsins fegurð horfna,
þar fann jeg hlý og fögur kvöld,
og frelsisbjarta morgna.

Og nú, er jóla — nálgast tíð,
jeg návist horfinn þinni,
vil biðja þann, sem leiðir lýð
með líknarhendi sinni,
að krýna hús og hjarta þitt,
með hreinni jólagleði,
sem hvíldir unga hjartað mitt,
á hægum kjöltubeði.

---

## Vorið kom. —

Vorið kom með unað sinn og yndi,
ástarfagurt, blítt og draumaríkt,
hugarglöðum ljek mjer flest í lyndi
lífið gjörvallt fannst mjer brosi vígt;
dró þá skugga dimman yfir hjarta,
dökkum skýjum sveiptist himinlind,
þegar sá jeg, þyrnirósin bjarta,
þína löngu horfna bernskumynd.

En hvers vegna á jeg þá að líða
æfilangan söknuð fyrir þig,
yndisfagra fjallarósin blíða?
Farðu blessuð, trúin huggar mig.
Elskað þig, en gleymt þjer get jeg eigi

gró þú heil við sumardaga ljós,
vexti gædd, þó vonir mínar deyi,
vorsins ástarblíða morgunrós.

---

### Afmælisvísur Gísla.

(Kveðnar í gamni).

Þið þekkið hann Gísla, það engill var einn
á öndverðum sköpunardögum,
í ljósfylking himins ei lengri var neinn,
Þó lítt verði' 'ans getið í sögum.

En brátt tók hann hentugra heimkynni að þrá,
og hafði það samstundis fengið
því gaulopnu veraldar hesthúsi hjá,
varð honum af tilviljun gengið.

Þar stallur með gaflinum langsetis lá,
þó lítið á greyinu bæri,
hún Forvitni bað hann að fara' inn og sjá
hvað fjemætt í stallinum væri.

Að dyrunum strákhnokkinn óhræddur óð
og inn úr þeim niðdimmu göngum,
en svínalinn Heimur við stallinn sinn stóð
og stertinum veifaði löngum.

Þá hrópaði Gísli: »Það erindið er, —
Þó annað á spítunni hjengi, —
jeg sendur var hingað að sópa' upp hjá þjer,
og sjá hvernig átlagið gengi.

Í göngum af moldryki grætur hann þar,
en gáir þó vandlega í stallinn;

því mygladur Gleymskunnar moðruddi var
á mestalla gjöfina fallinn.

Að hirða' upp úr forinni heystráin blaut,
hann hugsaði' og þerraði tárin,
að lítt yrði borguð sú langvinna þraut,
að lokum, því tveir áttu klárinn.

Af Hræsninnar stargresi hafði' 'ann þar nóg,
og hálmstráum Syndar, að borða,
með dálitlu blómgresi' úr Dyggðanna skóg,
af drambkáli vorbyrgan forða.

Af menningartöðu þar lögð voru lög,
hann lítið á japlinu græddi,
af fergini Lyginnar, fornhirtu mjög,
var furða hvað klárskepnan slæddi.

Ei langaði drenginn í ljósengla geim
þó ljótt væri' í kofanum inni.
Því meira var gaman að glettast við Heim,
og gjöra' 'onum órótt í sinni.

Í horblöðku kærleikans hafði' 'ann þar náð,
og handfylli' af menningarblómum,
og trúbragða sóleyjum sá hann þar stráð,
þær suðu 'onum skinnið af gómum.

Hann fleygði þeim öllum í forina þar,
sem ferginið mest hafði dottið,
en hirti þó blómið, sem veglegast var
und vorhimni Stillingar sprottið.

En Heimur var slægur, sem hestum er tamt,

er haustníddir þrálega meiðast.
Hann hreifði sig dálítið, hóglega samt,
unz honum fór krakkinn að leiðast.

Á íslenzku hellunni hesturinn stóð
í horninu, nyrzt inn við gaflinn.
Þar drenghnokkinn stálpaður missti' ekki móð,
unz meinvættið rak í hann skaflinn.

Ei Gísla við höggið nje hóffarið brá,
en hlær nú svo dátt sem hann getur,
þó skeinan, ef til vill, sje talin ósmá
í tárum hún grær ekki betur.

Þá leggur hann kjaptband við hausinn á Heim
með hnakk var ei þarflegt að prýða' 'ann,
um rennsljetta helluna reiðskjóta þeim,
hann ríður í fluginu síðan.

Og Gísli mjer segir, það geri' ekki neitt,
þó gangi sig Heimur af járnum,
sje stingandi mannvonzku stálsporum beitt
má strax hafa skeiðið úr klárnum.

Það verst er, hann lætur ei varúðar gætt,
svo vill til að kjaptbandið slitnar,
en ríður því harðar, þá hefur það bætt,
svo Heimur í náranum svitnar.

En síðan hann byrjaði burtfararlag,
þar beindust frá himninum vegir,
það eru nú tuttugu og tvö ár í dag,
að tamningamaðurinn segir.

Vjer árnum þjer hamingju hugprúði sveinn,

er húsið til afnota þáðum,
þjer mest getum vorkennt að vera svona' einn,
en vonum þú tvímennir bráðum.

En loks verður klárskepnan borin á bál,
og brend þar sem grautfúin hrísla,
þá ætti' ekki að verða neitt efunarmál
hvor eigandinn líknaði Gísla.

---

## Frá bróður til systur.

Nú fagna jeg, systir, því vonin um vor,
hún vex mjer í draumglöðu hjarta,
það eykur mjer barnsælum yngjandi þor,
hve yndisleg verða' okkar heimfararspor,
við sumarsins blíðviðrið bjarta.

Er finnumst við aptur — hve fögur sú stund
í foreldra húsunum kæru.
Með vonandi hjarta með hrifinni lund,
að heilsa þeim blómum, er fæðast um grund,
sem nýfengnir vinir þau væru.

Í kvöldroðans gullhjúpi svifin að sjó,
er sólin með vorfögrum degi,
þín ástríka sál þar hið saklausa bjó,
að síðustu leggjast með gleðjandi ró,
í hafdjúp guðs miskunar megi.

---

## Minning.

Lifðu nú aptur
liðna daga,
útlægur gjörður
frá æskustöðvum,
grátklökkur andi,
og gakk til baka
indælust fótspor
ástar þinnar.

Manstu hinn fyrsta
morgunroða,
barnslegrar ástar
brosljúfa þrá?
Var hún sem blóm
undir blæju fanna,
aðila rjettum
enn þá hulin.

Kaldir voru dagar,
en dimmar nætur,
saklausrar bernsku,
sólarvana,
dóu því flestar
eða fegurð týndu,
gaddfrosnar rætur
gæfu minnar.

Svellþakin síðast
þú sólu kvaddir,
grátfagra rós
minna glöðu drauma,
hörð og helköld
á hjarni lífsins,
glottir þú nú
við geislum sólar.

Felda jeg tár
yfir tældum draumi
leitandi brott
frá bernskustöðvum,
en þótt jeg færi
fjarlægar brautir,
endur jeg þráði
minn æskudal.

Varð mjer þangað aptur
um vordag reikað;
frostið var horfið,
fuglar sungu,
bröguðu lækir
á blómgum völlum
ástar og vonar
indælan söng.

Glitruðu nýjar
í grænum hlíðum
marglitar rósir
í morgunblæ.
Leit jeg þar eina
öðrum fegri,
grátvökvað smáblóm
geislum vafið.

Breiddir þú greinar,
blöðum skreyttar
nýjar vekjandi
vonir í barmi,
ein var þó fegurst
allra þeirra,
einföld, óbrotin,
ódauðleg grein.

Vaxið hafðir þú
í viða skjóli
tveggja, sem báðir
blómum þínum
skýldu fyrir stormi
og skúrafjöld,
enda þótt ofsnemma
hin eldri hnigi.

Breyttust þá geislar
í grátský þögul,
hömuðust vindar,
en hin þjer skýldi,
hugaði guð,
að greinum ungum,
þar liggur orsök
þíns innri blóma.

Hvort sem þú áttir
öðrum hlyni,
fögur að lúta,
og limi vefja,
stóðstu sem óbundin
alfrjáls lilja,
sönn og fögur
með sólgylltar brár.

Ósjálfrátt vafin
ástar dróma,
hneigði jeg hug til þín
af hreinu þeli;
fann jeg þá fyrst
mjer fjötra lagða,
ungum að hjarta,
þá jeg aldrei slít.

Nær mun jeg lifa
ljúfari daga,
heldur enn þá,
er þjer jeg vildi
allt mitt hið dýrasta
í eigu gefa,
og fyrir þig stríða,
fram til grafar.

Enn þá ósnortin
ein þú stendur,
fögur, tignarleg,
foldar lilja,
þótt komi vetur
og kuldaskúrir,
grein þín hin bezta
getur ei dáið.

Þrýsti jeg henni
að hjarta mínu,

þó hún sje þyrnum
þjettum vafin,
fyrst jeg má eigi
fleiri snerta,
bera skal hún vitni
um bjartleik þinn.

Viknar ei grund
um vetrarnætur,
stirð og köld,
fyrir stjörnuljósi;
hin ytri fegurð
ei fremur getur,
sigrað helkulda
sálar minnar.

Innri hugljúfa,
eilífa tryggð!
hvort sem þú ljómar
í huga mínum,
eða sem geisli
frá öðru hjarta,
einni skal þjer takast,
að töfra mig.

---

## Tjaldurinn.

Með kolsvart bak, en brjóstið mjallahvítt,
og blikdjörf augu, háraudt nef og fætur,
af fuglum þeim er fegra sumar blítt
þú fyrstur allra til þín heyra lætur;
með fagurhvellum hjartans þýðum söng
við hafsins tóna stillir fögur kvæði,
svo vonarþrungin, viðkvæm, sæt og löng
um vorsins dýrð og fósturjarðar-gæði.

Jeg man þig fyrr í mínum hljóða dal,
er morgunsólin reis úr bárudjúpi,
og geislakossi kyssti blómaval,
er kalin sváfu, vafin dauðanshjúpi;
þar vorsins blær mjer ljek um ljósa kinn
svo ljúft en hljótt hans þytur snart mitt eyra:
»Ó, sjáðu hjerna fyrsta fuglinn minn,
þú fær nú bráðum ljúfa rödd að heyra«.

Jeg andann hljótt í hæga blænum dró,
því helgur friður grúfði' of öllu í dalnum.
Hve hún var þögul þessi næturró,
og þó svo blíð und heiða stjörnusalnum.
Á eyri þar sem engin greri rós
þú aleinn svafst í faðmi blíðrar nætur.
Hvar var þinn maki líka þurfti' 'ann ljós,
og ljettum vængjum hvíla grannar fætur.

Þið dvölduð saman suðri björtu hjá,
og sunguð ljóð af himinfaðmi borin.
Þið margoft höfðuð flogið norður frá
og farið þangað aftur snemma á vorin;
þið byggðuð hreiður, áttuð nokkur egg,
og óluð þau af vinartryggum hjörtum
og börnum smáum komuð loks á »legg«
og ljúfra gættuð fyrir vargi svörtum.

Og þessi von í beggja brjóstum hló,
er byrjuð var sú ferð, sem hjer um getur,
hún ykkur lengra og lengra norður dró,
að landi því sem optast geymir vetur;
þið hvílduð ykkur fyrst á fögrum mel,
og fagrar þakkir sunguð drottni hreinum,
því hvorugt ykkar hugði nálægt hel,
unz hún var lostin tveimur þungum steinum.

Jeg sá opt fugl, sem fegri vængi bar,
og flogið gat frá jörðu miklu hærra,
en aldrei fegri óð jeg kenndi þar
nje ástarrödd, sem hljómað gæti skærra,
en vinarkvak sem vonlaus angist bjó
hjá vorsins allra fyrsta næturgesti,

þín sorgarraust er blíð í blænum dó
hún bergmál sitt í huga mínum festi.

Nú svafstu einn, þars engin greru blóm,
en eptir hverju varstu þá að bíða?
hvort sýndist þjer ei þessum fullnægt dóm,
er þú hjá okkur mönnum varst að líða?
Þú vissir einn, sem elskað hafði ljóð,
þótt angurmildu kvaki blandin væru.
Þú vissir einn, er viðkvæmt geymdi blóð
og vildi feginn sumarljóðin skæru.

Því hvísla' að honum blæinn ljúft þú baðst,
að bráðum mundir þú hjá læknum kvaka,
af fegurð vorsins svo jeg gæti glaðst
unz gengi sól, þú beiddir hann að vaka, —
jeg man það enn hve sæll var dagur sá,
er söngstu mjer að vonarglöðu hjarta,
svo himinljúfa, ljetta, frjálsa þrá,
um ljósa daga hlýja og sólskinsbjarta.

Og hvenær, sem jeg heyri óðinn þinn
mig hrífur þessi forni morgundraumur,
jeg man þig, ástar-fagri fuglinn minn,
þó fjötri hugann lífsins töfraglaumur;
þú söngst mjer forðum fögur bernskuljóð,
um falleg hjeröð, sumarblómum gróin,
um gráar strendur, stirðnað æskublóð,
þú steina millum kveður nú við sjóinn.

## Vísa úr brjefi.

Meinið flest er mæða kann,
manni' er bezt að svæfa.
Þótt eitthvað bresti, ánægjan
er hin mesta gæfa. —

## Vetrarlok 1902.

Þú vetur, sem hverfandi kveður í kvöld,
þín kært sje oss flestum að minnast.
Ei stórfelld nje þvingandi voru þín völd.
Að vísu þín atlaga dauðans köld
í hríðunum hlaut oss að finnast.

Þú norðurströnd lands vors með hafísum hjóst
þó hláni með komandi vori,
í meðvitund frónbúa liggur það ljóst,
að lífsnauða framtíð oss með þeim bjóst,
en raun vinnst með þrekföstu þori.

Vjer kvíðum ei framtíðar komandi hag,
en kætumst, því nú ertu liðinn,
þó gæfirðu margan oss gleðjandi dag
vjer getum ei hryggst við þitt sólarlag,
því löng var oss ljóskomu beðin.

Þú fæddir oss marga, sem framtíðin ein
oss frætt um sem þroskaða getur,
þú tókst frá oss marga, — svo táradögg hrein
opt titrandi á syrgjendans hvarmi skein, —
en vonum þeim vegni nú betur.

Hver skilur að fullu þín framtíðarlög,
er fæðast af hendingum þínum?
Því ótalmörg lagðir þú orsakadrög,
er alvizkan stjórnar í ráðum hög,
er gaf þig nú sólfaðmi sínum.

Hver skilur að fullu þinn gáleysisglaum
og gleðinnar laúnhálu brautir,
er gárunginn sekkur í girndanna straum,
er gaf sjer í hvíld þinni lausan taum,
en sá eigi samfara þrautir?

Hver skilur að fullu þín skilnaðartár
og skapaða hugsmíðisdrauma?
Hví verður ein smábóla voðalegt sár?
Hví verður ein klukkustund löng sem ár?
í fimbulreið forlagastrauma.

Hver skilur að fullu þín frosthörðu jel,
er fölnaðar haustrósir dóu?
Hver skilur þig vetur? hver skilur þig hel?
allt skaparinn þekkir, sem gjörði allt vel.
Jeg kætist með kvakandi lóu.

Með heiðskíru vori jeg himininn á,
en hirði' ei um ráðgátur þínar,
því margt verður fallegt í sumar að sjá,
hve sæll og hve brosglaður verð jeg þá,
er rósinni' í hlíðinni hlýnar!

Jeg hirði' ekki vitund þó hrökkvi mjer tár,
und himninum blómdaggarríka;
þar jökullinn hlýtur af sólstungu sár

og svalandi dögg niður kaldar brár
sjer þrengir um þjóðhetju slíka.

Svo kveð jeg þig vetur, og þökk veri þeim,
sem þig hefur gefið og tekur.
Hvað sumarið ber oss að byggð vorri heim,
er blindmyrkri sveipað í tímans geim,
en sólgeislinn vonirnar vekur.

Já, verði það indælt og veglegt og blítt
þá velgjörð með þakklæti játið,
en reynist það sviplegt og sorglegt og strítt,
þá sýnum; að drottni við getum hlýtt,
og glaðir í voninni grátið.

---

## Frá syni til móður, að nýlátnum föður.

Lifðu blessuð langan aldur,
lífsins mótbyr nístingskaldur,
vonarblóm á vegi þínum
viðkvæm aldrei fái sært.
Látinn vin er gott að gráta,
gráta', en jafnframt huggast láta,
fram til grafar þolgóð þreyjum,
það er vorum drottni kært.

Í hans nafni störfum, stríðum
stundarböl með djörfung líðum,
yfir mæðu brattar brautir,
berum helgan trúarkranz;
hjer þó skilji vora vegi,
vonum, biðjum þreytumst eigi,

grátnum kærleiksgeislar skína,
guðdómlega huggarans.

---

## Niðurlag á brjefi.

Með virðingu og gleði frá gamalli tíð,
þjer göfugum skáldmenntavini,
að síðustu fáeinar bögur jeg býð,
sem braglaun í þakklætisskyni.

Sem einmani' úr fjarlægð þú yrkir til mín,
þitt ástfagra, hljómskæra kvæði.
Í lifnandi blóma sje lífsgleði þín,
er leikur á forlaga þræði.

Um særandi lífstríð, um táldregna tryggð,
þú talar í brjefmiða þínum;
frá margþreyttum barmi, sem hræðist ei hryggð
og hrósar ei styrkleika sínum.

Já, veikleika hulin er heimsgleði vor,
svo hljótum vjer brosandi' að gráta,
oss mönnum að þekkja hvert mótlætisspor,
er mörgum svo vandráðin gáta.

Það dimmir opt snögglega' á dauðlegra braut
og dagarnir breytast með árum;
en sólskinið útrýmir svartnættis þraut,
og samfundir skilnaðartárum.

Á leiksviði heimsins vjer leikum svo margt,
úr lífsögum horfinna daga;

þar stundum er myrkur, en stundum svo bjart,
þar stýlast vor framtíðarsaga.

En opt verða gleymskunnar iðgjöld vor laun,
þó öðrum vjer kærleika sýnum.
Vjer stríðum hjer mæddir við stundlega raun,
og styrkleikans hugrekki tínum.

Nú óðfluga hverfur sú hentuga stund,
að hugsa þjer samboðið kvæði.
Þig framvegis styrki guðs föðurleg mund,
unz finnumst í himninum bæði.

---

## Kveðja.

Helgustu kveðjuna', er hugurinn geymir
hjeðan jeg sendi þjer, vinur minn kær.
Svip þínum aldrei um eilífð hann gleymir,
eins er hann ljúfur þó sjertu mjer fjær;
hann er sú vera, er heitast jeg þrái,
haggast ei von á þeim grundvelli byggð,
síðar með indælli framtíð jeg fái,
fórnað þjer brennandi saklausri tryggð.

Þegar í vorljúfa, brosmilda blænum,
bárurnar leika við sólhýra strönd,
hugurinn dvelur á haffleti grænum,
hjartkæra vinarins saknar mín önd.
Fylgi þjer lukkan á framtíðarvegi,
fullsælu krýnandi lífsferil þinn.
Gæti þín alvaldur. — Gleymdu mjer eigi,
göfugi, trúfasti vinurinn minn.

---

## Úr brjefi til Ameríku.

Brunaglóðum borin saka,
börnum móðir góð til enda,
eyjan fróða kennd við klaka
kveðju, bróðir, vill þjer senda.

Einatt grunar hana heima,
hún þó særist klakabandi,
að þið munuð aldrei gleyma
ykkar kæra föðurlandi.

Fyrsta vorið, fyrsta árið,
fyrst er nokkuð talað gátum,
fyrsta sporið, fyrsta tárið
fóstru okkar helgað látum.

Hjer er fagurt heima, bróðir,
heiðríkt kvöld um miðjan vetur,
okkar forna menntamóðir
mikið dýrðleg verið getur.

Lífs þig mæða angri engi,
auðna vinni bug á stríði;
vertu bæði vel og lengi
vina þinna höfuðprýði.

## Í tunglsljósi á jólunum.

Mjer finnst svo ljett og gott að gráta í kvöld,
er geng jeg einn og blessað tunglið skín.
Við fótmál sjerhvert fönnin glitrar köld
og frosin gljúpnar hún við tárin mín,

þó springi af leyndum harmi vesælt hjarta,
ei hitnað gæti fönnin tunglskinsbjarta.

Nei, hún er köld og hörð sem steinn, en ljett,
og hjaðnað getur fyrir sól og skúr;
þó fæ jeg hennar björtu blöðum flett,
og blómtár hverju korni myndað úr,
já, vorsins dögg úr vetrarhjarni knúið
og visnum gluggarósum þroska búið.

En sólin verður samt að lýsa þeim
og sínum geislum verma fölva rót,
í þessum kvalakalda norðurheim,
sem klökknar engri tunglskinsbirtu mót,
en breiðir logn um líkhvítt jarðarveldi
og laðar mig að gráta' á þessu kvöldi.

En hví er mjer svo ljett um tregatár?
og til hvers græt jeg svona fagurt kvöld?
Í hjarta mínu svíður þögult sár,
það sárið ber mjer vitni' um slokkinn eld,
sem ástin vakti innst í mínu hjarta,
hin yndisfagra, glaða, vonarbjarta.

Já, þú varst heilagt, hreint og saklaust blóm
og hvít sem mjöll í tunglskinsbirtu klædd,
en þú varst lostin þungum sorgardóm,
og þínar ljúfu stöðvar flúðir hrædd,
í útlegð þar sem engan framar dreymir,
en angurvakta minning hjartað geymir.

Jeg sjálfur mínu sára böli veld,
en seg mjer hvernig? spyr þú. Ekkert svar,
að hjarta mínu' er lokuð leið í kveld,

en ljós frá hæðum trúin kveikir þar.
»Í hjarta þínu frelsarinn vill fæðast,
ei framar þarftu lífsins skugga' að hræðast«.

Mín ljúfa þrá, sem þungri sættir kvöl,
jeg þig í hverju stríði muna skal,
að geisladögg þú gjörir allt mitt böl
þó ganga verði' eg hrímgan táradal,
sem vökvar mínar visnu hjartans rósir
svo verði' úr köldu myrkri dagar ljósir.

Já, fylg þú mjer og lýstu mína leið,
er lífsins hiti í kulda breytir sjer;
jeg vann þjer forðum helgan ástareið,
og ætti líka sízt að rjúfa' 'ann hjer,
því nú er hann mitt eina jarðneskt yndi,
já, engill guðs, ef nálægð þína fyndi.

Æ, þú ert fjarri, þú sem gleymdir mjer,
og þekkt ei sagðist geta hjarta mitt,
þótt vinarsnauða sál jeg sýndi þjer,
ei samt gat viknað kalda hjartað þitt.
Jeg veit ei, hvort þú vildir sigrast láta,
nei, vertu sæl, þig framar skal ei gráta.

---

## Vísa úr brjefi til J. Ingvasonar.

Lífsins þönd er bila bönd
á boða gröndum dauða-löðurs,
þína önd, á ljóssins lönd,
leiði höndin alda föðurs.

---

## Sem þrælar ei vinnum —

— Sem þrælar ei vinnum að þjóðfjelagsheill,
af þröngsýni bundnir á fótum,
því trjeð fær ei staðist ef stofninn er veill;
því stormarnir kasta' upp með rótum.

Að þekking og reynslu við erum svo ung,
en óskum og vonum og þráum,
oss brestur opt krapta ef byrðin er þung,
svo borið ei lengur vjer fáum.

Vor köllun er lífsbyrði', í kærleika mest,
hún kraptanna þolgæði reynir,
hve fjelag er gagnlegt, það finnum vjer bezt,
ef föllum á veginum einir.

Þá reisir oss enginn nje rjettir oss hönd,
þó rasaðir biðjandi grátum;
því knýtum með eindrægni kærleikans bönd,
og kraptana sameinast látum.

Þó lágt verðum settir í lífsstöðu hjer,
það látum ei framkvæmdum spilla,
því sælasta meðvitund samvizkan er,
ef sigrum með kærleik hið illa.

Hún veitir að síðustu verðlaunin hæðst
og verkin í duptið ei grefur,
þá höfum við ekki til ónýtis fæðst,
ef okkur hún meðvitni gefur.



# Röð ljóðanna.





2)

# Sálin hans Jóns míns.

Leikr í þremr þáttum

eftir

frú Hólmfríði G. C. Sharpe.

---

Reykjavík.
Bókverzlun Sigf. Eymundssonar
1897.

## Fólkið í leiknum.

**Eiríkr Anderson,** búandi í Milwaukee.

**Arndís Anderson,** dóttir Eiríks.

**Guðbjörg Johnson,** ekkja.

**Kjartan Felstad,** ungr verzlunarmaðr í Milwaukee.

Sjera **Jóhannes Jónsson,** nýlendu-prestr frá Dakota.

**Þuríðr Thorsen,** vinstúlka Guðbjargar.

**Jón Jónsson,** nýkominn vestrfari frá Íslandi.

**Gertie Johnson** (Guðrún Jónsdóttir), ung íslenzk stúlka í Milwaukee.

**Sálin hans Jóns míns,** (rödd frá himni).

---

(Leikrinn fer fram í stofu Eiríks Andersons í Milwaukee 1892).

---

# FYRSTI ÞÁTTR.

## 1. ATRIÐI.

Helzta stofa í húsi Eiríks vel búin. Eiríkr sitr vinstra megin borðs, en Guðbjörg hægra megin prjónandi.

*Eiríkr.*

Og ekki trúi jeg nú því; einkis hefi jeg orðið var. svo að mjer leiki nokkur minsti grunr á þess háttar. En ykkr er altjend óhætt kvennfólkinu; það lítr enginn piltr svo hornauga til stúlku, að honum ekki leiki hugr á henni að ykkar áliti.

*Guðbjörg.*

Jæja; trú þú engu fyr en þú tekr á. Jeg held þó að jeg þekki ofboð vel þetta og þvílíkt. Það minnir mig svo sem hvert augnablikið á hann Jón minn sáluga, og honum eru þeir þó fæstir líkir.

*Eiríkr.*

Má jeg spyrja, hvað kemr hann Jón þinn sálugi þessu máli við um ferðirnar hans Kjartans hingað?

*Guðbjörg.*

Hann Kjartan er í sömu erindagjörðum og hann Jón minn sálugi var þegar hann var að biðja mín, því hann er að draga sig eftir henni Arndísi,

*Eiríkr* sezt.

Ef það væri, þætti mjer það leiðinlegt, því Kjartan er allra myndarlegasti maðr, og satt að segja þykir mjer hálfvegis vænt um hann.

*Guðbjörg* fálmar upp höndunum forviða.

Og það þykir þjer leiðinlegt! Ertu genginn af göflunum, maðr? Þykir þjer það leiðinlegt að ungr, efnilegr, mentaðr og fjáðr maðr af beztu íslenzkum ættum vill fá dóttr þína, sem þjer þykir svo fjarska vænt um?

*Eiríkr* tekr fram í.

Bíddu nú við; jeg skal nú láta þig heyra mínar ástæður, því ástæður hefi jeg, og þær gildar; en fyrir alla muni, hafðu ekki orð á þessu við nokkurn mann.

*Guðbjörg.*

Er jeg vön að hafa orð á því sem mjer er sagt í trúnaði? Nei, málug hefi jeg aldrei þótt, því sagði hann Jón minn sálugi: "Já það er óhætt að trúa þjer fyrir leyndarmálunum, hjartað mitt, eins og klettinum".

*Eiríkr.*

Hann hefir víst átt við bergmálið, þegar hann gerði þá samlíkingu.

*Guðbjörg.*

Nú skil jeg þig ekki, og líkast til skilr þú þig ekki sjálfr. Hann Jón minn sálugi vissi, hvað hann sagði; en hverjar eru þessar ástæður?

*Eiríkr.*

Þú veizt að hans sjera Jóhannesar er von.

*Guðbjörg.*

Er ekki alt tilbúið handa honum? — Jú, víst veit jeg það.

*Eiríkr.*

En þú veizt ekki, í hvaða erindagjörðum hann er?

*Guðbjörg.*

Það ímynda jeg mjer að allir geti skilið, þar sem margir eru óskírðir og ófermdir og ekki svo fáir altilbúnir að láta gifta sig hjer í bænum.

*Eiríkr.*

En þú veizt ekki, að hann er jafnvel í konuleit líka?

*Guðbjörg.*

Nei — skyldi það vera satt?

*Eiríkr.*

Satt mun það vera. Jeg hitti einn landa þaðan að vestan, og sagði hann mjer meðal annars, að sjera Jóhannes hefði þaulspurt sig um Arndísi litlu, hvort allar þær sögur væru sannar, sem af henni gengju, hvað hún væri falleg og efnileg stúlka — og jeg þykist vera kominn þar að vissri niðrstöðu — —

*Guðbjörg.*

Hvaða niðrstöðu?

*Eiríkr.*

Að hann sjera Jóhannes ætlar, ásamt öðrum extraverkum, að biðja sjer konu, og mun líklega vera að hugsa um tengdir við mig, og verðr það ekki síðr eftir að hann sjer Dísu litlu.

*Guðbjörg.*

Það væri bærilegt. Þú hefir þó ekki sjeð sjera Jó-

hannes, svo þú veizt ekki, hvort hann er eins laglegr maðr og Kjartan.

*Eiríkr.*

Það hefi jeg að vísu ekki; en hvað um það? Jeg álít það óþarfa að njósna eftir mannkostunum, þegar maðrinn er vígðr prestr á annað borð (Stendr upp og tekr hattinn).

*Guðbjörg.*

Hvert ætlar þú núna?

*Eiríkr.*

Að mæta sjera Jóhannesi; það mun vera kominn tími til þess og síðr vil jeg láta standa á mjer að veita honum þá gestrisni, sem unt er. (Barið.)

## 2. ATRIÐI.

*Þuríðr* kemr inn vinstra megin.

Ó góða, jeg mátti til að koma og sjá þig netop í dag. Ó, jeg gat ekki á mjer setið (kyssir Guðbjörgu á milli annars hvers orðs). Ó veiztu, hvað hún Gertie Johnson sagði mjer í morgun?

*Guðbjörg.*

Nei, hvernig get jeg vitað það?

*Eiríkr* stendr forviða við dyrnar.

Jæja, jeg verð að fara. Skeð getr, þær verði búnar að kyssast þegar jeg kem aftr. (Fer út vinstra megin).

*Guðbjörg.*

Nú, hvað sagði hún Gertie þjer, Þura?

*Þuríðr.*

Æ, góða, hún sagði þið ættuð von á honum sjera Jóhannesi Johnson í dag. Er það satt, góða, eða er það eintómt slúðr úr henni Gertie? Hún er svo ósköp málug hún Gertie. Er það ekki satt, er hún ekki málug hún Gertie?

*Guðbjörg.*

Og alt læt jeg það vera, hvað hún er málug á íslenzku. Þú veizt að það er ómögulegt að fá hana til að segja eitt orð á sínu móðurmáli.

*Þuríðr.*

Æ, góða, það er satt, þú skilr svo lítið í ensku. Ó, er það ekki leiðinlegt?

*Guðbjörg.*

Ójú, það er leiðinlegt, en ekki leiðinlegra fyrir mig en aðra; og heldr vil jeg vera hreinskilin og játa vankunnáttu mína, heldr enn vera að þykjast og látast skilja það sem jeg ekki skil, eins og sumir, sem jeg þekki.

*Þuríðr.*

Æ, við hvað áttu nú, góða?

*Guðbjörg.*

Það gerir ekkert til, við hvað jeg á sjestaklega; en eitt er jeg viss um, og það er, að Gertie hefir talað v i ð þ i g á íslenzku.

*Þuríðr.*

Æ, góða, það gerir ekkert til, á hvaða máli hún s n a k k a ð i; en er það ekki satt, eigið þið ekki von á honum sjera Jóhannesi í dag?

*Guðbjörg.*

Jú jú, hann Eiríkr bróðir minn er farinn út að taka á móti honum.

*Þuríðr.*

Ó, er það ekki inndælt! Hann sem er sagðr svo makalaus, þessi maðr, hann sjera Jóhannes. En góða, hvernig stendr á því, að hann kemr beint til ykkar? Þekkir hann ykkr að fornu?

*Guðbjörg.*

Ónei, ekki gerir hann það. Samt mun hann verða ef allt fer að óskum, meira enn málkunnugr, því að þjer í trúnaði að segja, er hann kominn hingað beint í biðilsför. Hana nú, hvað sýnist þjer?

*Þuríðr.*

Nei nei, nei nei, góða, hvað þú getr verið interessant, og það er náttúrlega til þín, sem hann fríar?

*Guðbjörg.*

Og það er líkast til, að jeg sje að hugsa um þessháttar, eins og jeg syrgi hann Jón minn sáluga nótt og nýtan dag. Nei nei, jeg fer varla að hugsa um þessháttar það sem eftir er — —

*Þuríðr* tekr fram í.

Ó, góða, það er nú komið upp í vana fyrir þjer að minnast á hann Jón þinn sáluga í hverju orði. Jeg segi það alveg satt, að margir halda samt að þú syrgir hann ekki eins og þú lætr; en það er eintóm illgirni; ekki satt, góða?

*Guðbjörg.*

Já, því mátt þú trúa, það er illgirni og hún sú arg-

vítugasta; en engan hefi jeg heyrt láta sjer detta þvílíkt í hug.

*Þuríðr.*

Æ, góða, þú heldr þó ekki, að jeg sje að skrökva þessu? Nei, svei mjer þá, ef jeg hefi gert það; jeg veit þú getr ekki að því gert að minnast á hann Jón þinn sáluga í hverju orði, því þú ert svo stolt yfir því að hafa einu sinni átt mann, að þjer verðr ósjálfrátt, að vekja eftirtekt á því.

*Guðbjörg* kjökrandi.

Æ, Þura, enginn skyldi trúa að við værum vinir, eins og þú fer með mig,

*Þuríðr* glottandi.

Og ef jeg væri sem þú, góða, skyldi jeg reisa minnisvarða yfir moldir Jóns míns með þessari grafskrift: »Það sem hjer hvílir, á ekkjan Guðbjörg Johnson; þeir sem vilja fá nákvæmari upplýsingar, snúi sjer til hennar.«

*Guðbjörg.*

Nú finst þjer þú vera nokkuð fyndin. En lof mjer samt að segja þjer eitt, að hvernig sem mjer tekst að syrgja mannin minn sáluga, þá var hann þó minn maðr og við gefin saman af presti. Þar á móti þekki jeg kvennmann, sem hermir heit og ástir upp á dauða menn, sem hún var varla málkunnug meðan þeir lifðu og gátu varið sig — og þú þekkir hana líka, heillin góð.

*Þuríðr* fokreið.

Nei nei, Guðbjörg, hvað þú getr verið gróf, þú ert sljett ekki pen; þú ert reglulega svínsk, þegar þú

verðr svona reið; en jeg skil þig ekki, það veit hamingjan; jeg veit ekki, hvað þú átt við.

*Guðbjörg.*

O-jæja, veslingr, það er nú varla að þú vitir, hvað jeg meina; en af hverju ertu þá svona ösku-vond?

*Þuríðr.*

Jeg er ekki nærri eins reið og þú, Guðbjörg, og það hreint út af engu. Ó, að þú skulir vera soddan skass. Ekki furðar mig, þó hann Jón sje dauðr; það hefir víst verið komið mál til þess, — stakkels maðr, hann var þó pen maðr í samanburði við þig.

*Guðbjörg* með reiddan hnefann.

Sje jeg skass, þá ert þú ekki síðr flagð. (Eiríkr lýkr upp dyrunum vinstra megin og þeir sjera Jóhannes koma inn).

## 3. ATRIÐI.

*Eiríkr.*

Gerið þjer svo vel og gerið yðr heimakominn. Þetta er Guðbjörg systir mín, ekkja Jóns heitins Jónssonar (Þuríðr hnippir glottandi í Guðbjörgu) og Þuríðr Thorsen.

*Sjera Jóhannes.*

Sælar verið þjer, Guðbjörg mín; sælar, Þuríðr mín. [Heilsar báðum með handabandi].

*Guðbjörg* ýtir stól til sjera Jóhannesar.

Gerið þjer svo vel! Þetta er þægilegasti stóllin; þjer verðið nú að gera yðr að góðu, þó alt sje, því miðr, ófullkomið,

*Þuríðr* afsíðis til Guðbjargar.

Nú ertu byrjuð, góða, að leggja drög fyrir hann. Ó, hann sleppr aldrei; þú ert svo huguð.

*Eiríkr* sezt hjá sjera Jóhannesi.

Hvað segið þjer helzt í frjettum þaðan að vestan?

*Sjera Jóhannes.*

Alt gott að frjetta af löndum. Útlit fyrir beztu uppskeru; má segja að flestum vegni vel í minni sókn.

*Eiríkr.*

Þeir fara að verða stórríkir þar í Dakota.

*Arndís* kemr inn hægra megin búin til útgöngu.

(Til Þuríðar). Komið þér sælar.

*Eiríkr.*

Komdu hjerna, ljúfan mín, heilsaðu nýkomnum landa. Þetta er hann Sjera Jóhannes Jónsson, sem jeg fór til móts við. [Snýr sjer til sjera Jóhannesar]. Þetta er augasteinnin minn og einkadóttir mín Arndís. [Sjera Jóhannes og Arndís heilsast með handabandi].

*Arndís.*

Velkominn til Milvaukee

*Sjera Jóhannes.*

Þakka yðr fyrir; það gleðr mig sjerstaklega, að fá þá ánægju að kynnast yðr. [Sjera Jóhannes og Eiríkr setjast aftr og fara að hljóðskrafa sín á milli].

*Þuríðr* hnippir í Arndísi.

Óskjöp finst yðr þjer taka yðr vel út í dag; það skín svoleiðis út úr hverju einasta blikki.

*Arndís.*

Ekki er jeg úr blikki, enn ef þjer segðuð úr gulli, þá færuð þjer nær því.

*Þuríðr.*

Þjer eruð nú alt af svo dugleg að snúa út úr; þjer vitið þó, hvað jeg meina.

*Arndís.*

Stundum.

*Þuríðr.*

Jæja, þó jeg sje nú svo vitlaus, að enginn geti skilið mig, get jeg samt sagt yðr eitt.

*Arndís.*

Og það er?

*Þuríðr.*

Það er, að yðr er ekki til neins að kókettera við hann sjera Jóhannes.

*Arndís.*

Þakka yðr hjartanlega fyrir; þjer eruð alt af eins og leiðarljós, og ekki vantar umhyggjusemina fyrir mjer. Hvernig vissuð þjer, að það væri þörf á að gefa mjer þessa viðvörun?

*Þuríðr.*

Ó, góða Arndís, þjer vitið að þjer kókketterið við hvern einasta mann; en það er sjerstaklega vegna hennar töntu yðar, að jeg vildi tala við yðr um hann sjera Jóhannes.

*Arndís.*

Hugsið þjer ekki um hana; hún treystir mjer betr en þjer og grunar mig ekki um neitt.

*Þuríðr.*

Já, það er nú það versta, að hún er svo ótortrygg

in og svo grandalaus. En þjer megið ekki líta til hans sjera Jóhannesar; jeg segi yðr það alveg satt.

*Arndís.*

Af hverju ekki?

*Þuríðr* í hálfum hljóðum.

Af því að hann svo að segja er eign hennar töntu yðar; hann er kominn hingað beinlínis til að fría til hennar, og hún á ekki eftir annað enn að taka honum, sem hún gerir náttúrlega. Því ætli hún geri það ekki?

*Arndís* hissa.

Hvernig stendr á því, að þjer vitið þetta alt út í æsar? Jeg hefi ekki heyrt eitt orð um það.

*Þuríðr.*

Hún tanta yðar sagði mjer það sjálf rjett fyrir skömmu; en í trúnaði eins og þjer gjetið nærri.

*Arndís* brosandi:.

Já, náttúrlega í trúnaði, það er svo sem auðskilið. (Hark úti fyrir).

## 4. ATRIÐI.

*Eiríkr* stendr upp:

Nei, jeg steingleymdi manntetrinu, sem þjer mæltuzt til að kæmi hingað áðan (lítr til sjera Jóhannesar). Hann er þarna úti.

*Sjera Jóhannes* snýr sjer til Guðbjargar.

Já, vesalingrinn hann Jón, jeg vildi biðja yðr að hlynna að honum. Hann er nýkominn að heiman.

Eiríkr opnar dyr vinstra megin. Jón Jónsson vestrfari kemr inn; hann

**ber bögladan pípuhatt á höfði, er í síðum ljereftsfrakka og hefir íslenzkan ullartrefil margvafinn um hálsinn.**

*Guðbjörg.*

Komdu inn, garmr minn, og tyltu þjer niðr.

*Jón* sezt.

Guði sje lof, þetta er önnur manneskjan, sem talar íslenzku.

*Eiríkr* til sjera Jóhannesar.

Jeg gleymdi að spyrja yðr, hvar þjer funduð hann; jeg var svo niðrsokkinn í það sem við vórum að tala um.

*Sjera Jóhannes.*

Já, þjer verðið að fyrirgefa, að jeg gleymdi alveg að gera grein fyrir manninum. Járnbrautarlestin, sem jeg kom á, staldraði við fáein augnablik hjer fyrir norðan; jeg fór þar út til að hreyfa mig dálítið, og sá þá fjölda manna, sem vóru að stumra yfir þessari mannskepnu. Jeg spurði, hvað að honum gengi, og var mjer sagt, að hann væri ringlaðr og að enginn skildi hann.

*Eiríkr.*

Og þá komuð þjer honum til liðs, eins og yðar var von og vísa.

*Sjera Jóhannes.*

Járnbrautarþjónarnir og menn af þeim þjóðflokkum, sem þar voru, höfðu leitazt við að tala við hann, eða að láta hann skilja sig, en það var ómögulegt.

*Guðbjörg.*

Var hann heppinn, að þjer skylduð eiga þarna leið um!

*Sjera Jóhannes.*

Maðrinn varð himinlifandi, þegar jeg orti á hann, og kvaðst brátt mundi ná sjer þegar hann kæmi þangað sem íslenzka væri töluð. Jeg sá á farseðli hans að hann dugði hingað, (snýr sjer til Eiríks) svo að jeg rjeð honum að leita á fund yðar, því þjer munduð verða manna fúsastr að greiða götu hans.

*Eiríkr* til Guðbjargar.

Gefðu manninum einhverja hressingu.

*Guðbjörg.*

Jeg held hann falli í ómegin (setr vínflösku á borðið fyrir Jón, hellir á glasið og gefr honum). Reyndu að koma þessu niðr, rýjan mín, það kann að styrkja þig.

*Jón* drekkr og lifnar við.

Ah — þetta kom sjer bærilega (fyllir glasið aftr).

*Eiríkr.*

Hvernig stendr á fötunum, sem þú ert í? Ekki eru þetta íslenzk föt; ljereftsfrakkar eru heldr skjóllitlir á Íslandi.

*Jón.*

Nei, þetta eru ekki íslenzk föt, jeg á nú ekkert annað eftir af þeim en trefilinn og nærfötin; en við hverju er að búast eftir öll þau ósköp, sem mjer hafa mætt.

*Sjera Jóhannes.*

Segðu okkr ferðasögu þína, ef þú ert nógu hress til þess.

*Jón.*

Já, talsvert er jeg farinn að hressast; svo er fyrir

þakkandi, en þó er jeg ekki laus við bölvaðan sóninn; sem hefir legið í hlustunum á mjer allan seinni part ferðarinnar.

*Eiríkr.*

Það er víst ekki svo ófróðlegt að heyra, hvað hefir drifið á dagana fyrir þjer, en þó líklega heldr erfitt eftir því sem þú lítr út.

*Jón.*

Það er hverju orði sannara, sagan er fróðleg, en hryggileg; það veit sá, sem allt veit, að Jobsbók og Jerímíasar harmagrátr eru kómedíur í samanburði við hana.

*Guðbjörg.*

Vesalings maðrinn!

*Þuríðr.*

Stakkels maðrinn!

*Eiríkr.*

Jæja, Jón minn, láttu okkr heyra.

*Jón.*

Jeg lagði af stað frá Reykjavík með Angur-línunni fyrir sex vikum. Á milli Íslands og Skotlands var jeg við að sálast úr sjósótt, og spúði í sífellu nótt og dag. Þarna lá jeg með höfuðið á stokknum alla leið og komst aldrei upp á þilfarið. Allir vóru enskir á skipinu og skildu mig ekki, þó jeg yrti á þá á dönsku.

*Þuríðr.*

Ó, hann kann þá dönsku!

*Jón.*

En kokk-greyð aumkvaðist yfir mig, því þegar hann kom með mat handa mjer og sá, hvernig mjer leið, leit

hann forviða í kring og sagði: »you beast«[1]. »Já, beizkt, er það kunningi«, svaraði jeg (Arndís, Sjera Jóhannes og Eiríkr hlæja)

*Guðbjörg.*

Mikil ósköp hefir þú kvalizt, garmrinn.

*Jón.*

Það vóru meir en kvalir. Þarna hjelt jeg að jeg mundi missa öll innyflin, og eitthvað hefir víst farið af þeim, því þarna komu lifrarkekkirnir svona stórir (mælir á hálfum fingri). Gallið misti jeg, eins og það var, og ekki veit jeg betr en jeg kastaði upp öðru nýranu; en þá var svo dimt, að jeg gat ekki sjeð það fyrir víst; og ekki skal jeg ýkja.

*Arndís* tekr upp urið.

Jeg verð, því miðr, að fara út dálítinn tíma; jeg verð ekki lengi (fer út vinstra megin).

*Þuríðr.*

Komdu, Guðbjörg, við skulum fara fram; satt að segja sýnist mjer það ekki anstendugt fyrir dömur að hlusta á þennan mannræfil (Þær fara út hægra megin).

## 5. ATRIÐI.

*Sjera Jóhannes.*

Þuríðr hefir víst verið í Danmörku, á málinu að heyra.

*Eiríkr.*

Ekki það jeg veit; það sem hún hefir komið næst Dönum, er, að hún á bróðr, sem er skóari í Kaup-

1. Frb.: jú bíst. Það er líkt og sagt væri: »bölvaðr sóðinn!«

mannahöfn, og því finst henni hún vera hálfdönsk og slettir svo alt af dönsku. Hún segir líka, að Danir sjeu mesta þjóð heimsins og danska það alheimsmál, sem alstaðar dugi.

*Jón*

heldr áfram að hella á glasið og drekka, brosir hýrlega og dinglar fætinum. Við sjálfan sig: Þetta þætti bærilegt Good-Templarakaffi í Reykjavík.

*Eiríkr* lítr til Jóns.

Þú ert ekki búinn með ferðasöguna, ekki komin lengra en til Skotlands.

*Jón.*

Nei, nei, — og ekki tók betra við á Atlants-hafinu, því þó jeg væri ekki eins út af dauðr af sjósótt, þá var jeg svo máttlaus eftir öll ósköpin, sem á undan gengu, að jeg gat ekki á heilum mjer tekið og ekki nóg með það, heldr vildi mjer sá skolli til, að komast í þá römmustu rimmu við kokk-fjandann á Angur-línu-skipinu.

*Eiríkr.*

Hvernig gat það verið, þar sem þú skilr ekki málið?

*Jón.*

Jú, jú. Svona var það samt, og því ver og miðr skildi jeg eitt eða tvö orð, og það vóru einmitt þau fjandans orð, sem komu mjer í klípurnar.

*Sjera Jóhannes.*

Svo þú ert farinn að skilja dálítið. En það veldr oft miskilningi, þegar maðr skilr að eins fá orð; það

er enskr málsháttr, að sælt sje að vita ekki það sem að eins er skapraun í að vita.

*Jón.*

Það getr verið að það hafi verið orsökin, því misskilningr varð mikill. Jeg var máttlaus og þurfti að hafa gott fæði, en matr á þriðju káetu er svona í meðallagi góðr og ekki neitt sælgæti þar á ferðum. Nú, — mjer verðr gengið hjá eldhúsi, þar sem kokkr var að elda og leggr þá inndælustu matarlykt beint í nefið á mjer.

*Eiríkr.*

Og kokkr hefir boðið þjer nokkuð af sælgætinu.

*Jón.*

Nei, honum bjó sannarlega annað í hug, þeim fjanda. Jeg fór að slá upp á gaman við hann og smáýta mjer inn í eldhúsið; gerði honum svo greinilegar bendingar sem jeg gat, að feginsamlega mundi jeg taka á móti öllum góðgjörðum, enn þá rýkr hann upp með þá útsynnings orrahríð, að jeg hefi aldrei heyrt annað eins, veifar stórri sleif og hrópar eins og hann væri genginn af vitinu: Out, out, out.[1] Látt' ekki sona, lagsmaðr, sagði jeg, ekkert át jeg frá þjer; jeg er ekki farinn að smakka eina ögn.

*Sjera Jóhannes* brosandi.

Hann meinti það heldr ekki.

*Jón.*

Bíðið þjer nú við — verra tekr við, því þegar jeg fer að tala við hann, verðr hann öskuvondr og gellr

1. Frb: át, át, át; þ. e. : »út, út, út!«

upp: You damn fool, hvað eftir annað og tekr mig og fleygir mjer út á mitt þilfar.

*Eiríkr.*

Þú munt læra að skilja það einna fyrst, sem kokkrinn sagði, því að sje »auðlærð íll danska,« þá er íll enska það ekki síðr.

*Jón.*

Já, það voru nú einmitt vandræðin, að jeg skildi það sem skolli meinti, og þótti mjer hart að láta kolsvartan Angurlínu-kokk bregða mjer um fólsku, mjer, sem alla daga hefi þótt mesti meinleysis-maðr, fór því til hans aftr, og ætlaði í mesta bróðerni að koma honum í skilning um þetta. — Jæja, hann verðr nú svo bálvondr, að það keyrir fram úr öllu, kallar á einn af yfirmönnunum, sem kemr og þrífr í mig, les yfir mjer einhverja bölvaða romsu og skotrar mjer síðan nærri þvert yfir þilfarið.

*Sjera Jóhannes.*

Þú hættir að rata í þessar raunir, þegar þú fer að skilja málið.

*Jón.*

Já, það vona jeg, því ekki langar mig í svona æfintýri og ekki varð mjer betra við, þegar agentinn okkar kom til mín með kveðju frá skipstjóra um, að ef jeg væri að þessum bölvuðum brellum oftar, þá yrði jeg settr í járn. Jeg hjelt mjer því niðri í káetu það sem eftir var ferðarinnar.

*Eiríkr.*

En þegar þú varst loks kominn á land, hefir allt gengið betr.

*Jón.*

Það var líkast því eða hitt þá heldr; því að hafi mjer liðið illa á sjónum, leið mjer tíu sinnum ver þegar á land kom, en jeg ætla ekki að fara að gera grein fyrir þeim hrakningi; jeg er of þreyttr til þess núna. Mjer fanst jeg vera orðin að samanvöfðum núll-seðli í veraldarinnar tombólukassa og fjandinn sjálfr snjeri höldunni af öllu afli, og bölvaðr sónninn (dottar) hann fer aldrei úr mínum eyrum — og enskan — það er ljóta fjandans gargið; ekki er það mönnum bjóðandi, og engin meining er í því — ekki annað enn vitleysis-buldr. Æ mjer finst jeg hafa niðandi foss í höfðinu (leggr höfuðið fram á hendr sjer á borðinu).

*Eiríkr.*

Hann er kúguppgefinn, mannskepnan; jeg fer að vita, hvort Guðbjörg hefir herbergi handa honum (stendr upp. Sjera Jóhannes leggr hönd á handlegg honum).

*Sjera Jóhannes.*

Eitt orð: jeg mun flýta málum sem mest jeg get og halda brúðkaup eftir þrjár vikur, eða í mesta lagi mánuð, ef unt er. Jeg vil komast heim sem fyrst, og lengr en mánaðartíma má jeg varla tefja.

*Eiríkr.*

Þrjár vikur, segið þjer, nei það þykir mjer nokkuð fljótt.

*Jón* lyftir upp höfði.

Já, heldr fljótt.

Sjera Jóhannes og Eiríkr gefa honum hornauga, en halda áfram talinu.

*Sjera Jóhannes.*

Þjer sjáið, að mjer er varla mögulegt að vera lengr í burtu safnaðarins vegna, og það var naumast að jeg þyrði að fara þessa ferð, því deilur og óeirðir munu fara vaxandi meðan jeg er að heiman; nóg af þeim þegar jeg er heima, en helvítis . . . jeg meina, enn þá kargari eru þeir, ef jeg bregð mjer eitthvað í burtu.

*Jón* lítr upp.

Þú meinar: enn helvítis verri.

*Eiríkr.*

Jeg skil; fjeð villist, þegar forustusauðinn vantar.

*Sjera Jóhannes.*

Það er nú einmitt það.

*Eiríkr.*

En jeg var að hugsa um hana Dísu litlu. Þið verðið þó að kynnast dálítið, því bæði er mjer þetta mjög geðfelt margra hluta vegna, og jeg vona líka að hugir ykkar falli vel saman, en ekki vil jeg þröngva henni með hörku til að eiga nokkurn mann.

*Sjera Jóhannes.*

Með hörku? Haldið þjer, að það sjeu nokkrar líkur til, að dóttir yðar neiti mjer? Verið þjer alveg áhyggjulaus, hvað það snertir (hlær). Jeg vildi jeg ætti mjer alla góða hluti eins vísa.

*Jón* lítr upp.

Já, ef þú ættir þjer alla góða hluti eins vísa, kunningi.

*Sjera Jóhannes* lítr reiðilega til Jóns.

Hvaða buldr er í þessum ræfli? hann er farinn að rakna úr roti — en hvað jeg vildi segja, það er mjer óhætt að fullyrða, að altjend hefi jeg komið mjer bærilega við kvennfólkið, og einu gilti mig, hvar jeg leitaði meðal safnaðarins dætra þar vestra.

*Eiríkr.*

Þjer haldið víst ekki, að jeg efist um það. Nei. Mikil ósköp, nei! og jeg er viss um, að alt gengr hjer eftir óskum, og þá verðið þjer tengdasonr minn (þrífr glaðlega í hönd sjera Jóhannesar. Þeir brosa hvor framan í annan).

## 6. ATRIÐI.

*Kjartan Felstad* kemr inn vinstra megin.

Góðan dag! Mjer var vísað hingað; jeg vissi ekki að hjer vóru gestir.

*Eiríkr.*

Jú, jú; gest höfum við og hann góðan og velkominn. Sjera Jóhannes, hjer getið þjer heilsað vini okkar og landa: — Kjartan Felstað, sjera Jóhannes Jónsson frá Cross Roads, Dakota (Kjartan og sjera Jóhannes heilsast með handabandi).

*Kjartan* lítr á Jón og brosir.

En hjer sje jeg lifandi endrminning frá Bjarna Thorarensen,

*Eiríkr.*

Hvernig þá? Ekki get jeg sjeð neitt skáldlegt við Jón.

*Kjartan.*

Því trúi jeg; en samt datt mjer í hug: »Undarlegt sambland af frosti og funa«, þegar jeg sá ullartrefilinn og ljereftsfrakkann, því það lítr svo út eins og hálsinn eigi heima norðr við heimskaut, en búkrinn suðr í Brasilíu.

*Sjera Jóhannes.*

Það er annars merkilegt, hve Íslendingar halda fast við trefilinn.

*Kjartan.*

Það er ef til vill af því að trefillinn er eins konar ímynd af tjóðrbandi. — En má jeg spyrja, hver maðrinn er; er hann fylgdarmaðr yðar?

*Sjera Jóhannes* alvarlegr.

Öldungis ekki. Þessi ræfilll er nýkominn vestrfari af Íslandi. Við urðum samferða 15 mílur hingað, og eru það öll þau erindi, sem við höfum haft saman.

*Jón* lítr upp. Við sjálfan sig.

Satt er það, lítil erindi eigum við saman; því þú ert að biðja þjer stúlku, en jeg er að biðja mjer húsnæðis fyrir eina nótt. (Arndís og Guðbjörg koma inn um dyr hægra megin. Þuríðr í sama bili vinstra megin. Sjera Jóhannes og Eiríkr hljóðskrafa).

*Kjartan.*

Hvað segirðu, maðr? ertu með höfuðórum?

*Þuríðr.*

Maðrinn segir dagsatt; hann er kominn til að fría,

og hún á ekki annað eftir en að taka honum, sem hún gerir, manneskjan; því ætli hún geri það ekki?

*Kjartan* ákafr.

Arndís, Arndís, er þetta satt?

*Arndís* kemr fram á miðjan leikpall.

Náttúrlega er það satt, þegar hún Þuríðr segir það.

*Guðbjörg.*

Matrinn bíðr. Viljið þjer ekki gjöra svo vel að borða hjá okkr, herra Felstad.

*Kjartan* heldr hönd um enni.

Nei, þakk' yðr fyrir, ekki í dag. (Afsíðis) Því fyr sem jeg kemst hjeðan, því betr. Verið þið sæl (rýkr út vinstra megin).

*Jón.*

Það þarf ekki að dekstra mig til að taka mjer bita, því sónninn hefir nú fært sig úr eyrunum og ofan í maga og er orðinn að tóma-hljóði.

*Guðbjörg.*

Jæja, komdu, rýjan mín, það er víst nokkuð síðan þú hefir fengið almennilega máltíð.

*Eiríkr* til sjera Jóhannesar.

Gerið þjer svo vel. (Guðbjörg, Arndís, Eiríkr og sjera Jóhannes fara út vinstra megin).

*Þuríðr* við sjálfa sig.

Svo sannarlega sem jeg er lifandi manneskja, þá er herra Felstad f o r n e r m a ð r. En af hverju?

Tjaldið fellr.

## ANNAR ÞÁTTR.

Sex vikum síðar.

---

### 1. ATRIÐI.

*Arndís* sitr við borð hægra megin.

Hvernig stendr á því að hann kemr ekki? Jeg skil ekkert í því. Hann er þó ekki vanr að vera dutlungafullr eða með neinar kenjar, og þó hefir hann ekki komið hjer inn fyrir dyr í sex vikur — þær lengstu og leiðinlegastu sex vikur, sem jeg hefi lifað. — Og hvað hann var undarlegr, þegar hann var hjer síðast, þegar Þuríðr sagði honum að sjera Jóhannes væri að biðja Guðbjargar, — hefði hann vitað hvernig í því lá! — en skeð getr að hann hafi skilið það svo, að eitthvað óvanalegt væri um að vera — hann sem kom hingað á hverju kveldi áðr. En jeg skil annars ekkert í því, að jeg skuli vera að hugsa um hann og taka mjer þetta nærri, að hann kemr ekki. Jeg er alltaf að hlusta eftir skóhljóðinu hans, allt af að bíða eftir að hann komi glaðr og gamansamr með eitthvað nýtt úr blöðunum eða þess háttar. Alt af hafði hann nyja rós í frakkahorninu; hana tók jeg ævinnlega, án þess að spyrja um leyfi, — jeg vissi, hverjum hún var ætluð. Jeg man svo vel daginn áðr en hann kom hjer síðast, að þegar jeg tók rósina, horfði hann svo mikið á mig og lagði handlegginn um mittið á mjer. Í því bili kom Guðbjörg; annars hefði

jeg gefið honum ofanígjöf, og hana að gagni, því jeg varð reið — já, jeg reiddist, þó jeg fái hjartslátt þegar jeg hugsa um það — það er einmitt af því að jeg reiddist. Annars hefir Kjartan Felstad engin áhrif á mig. Hamingjunni sje lof. Dyrabjalla hringir hvellt.

*Arndís* með ákafa.

Það er hann, þar kemr hann loksins. Jeg þekki þegar hann hringir. Ó hjartað berst eins og gufuhamar í brjóstinu á mjer (leggr báðar hendr á brjóstið). — Það er æði óþægilegt, en það veit enginn nema jeg sjálf; þetta hjarta getr barizt og hann skal ekki sjá á mjer, hvað mjer þykir vænt um að hann kemr. (Barið hægt á dyr vinstra megin. Arndís lýkr upp. Kjartan Felstad kemr inn). Gerið þjer svo vel! ó, það eruð þjer! jeg ætlaði varla að þekkja yðr.

*Kjartan* tekr í hönd Arndísar.

Þjer segið, að þjer ætluðuð varla að þekkja mig; en þjer meintuð það nú reyndar ekki.

*Arndís* dregr hendina til sín.

Jú, víst meina jeg það, — en takið þjer yðr sæti. (Kjartan sezt niðr vinstra megin borðs, Arndís hinum megin). Er það ekki náttúrlegt að jeg þekki yðr ekki? Það er svo langt síðan að jeg hefi sjeð yðr, að jeg var nærri því búin að gleyma yðr.

*Kjartan.*

Eruð þjer svona gleymin? Þá vildi jeg óska, að mjer væri eins farið; en jeg fer nú annars að trúa þessu, því að þjer vóruð búin að gleyma mjer tveim dögum eftir að jeg var hjer síðast.

jeg gefið honum ofanígjöf, og hana að gagni, því jeg varð reið — já, jeg reiddist, þó jeg fái hjartslátt þegar jeg hugsa um það — það er einmitt af því að jeg reiddist. Annars hefir Kjartan Felstad engin áhrif á mig. Hamingjunni sje lof. Dyrabjalla hringir hvellt.

*Arndís* með ákafa.

Það er hann, þar kemr hann loksins. Jeg þekki þegar hann hringir. Ó hjartað berst eins og gufuhamar í brjóstinu á mjer (leggr báðar hendr á brjóstið). — Það er æði óþægilegt, en það veit enginn nema jeg sjálf; þetta hjarta getr barizt og hann skal ekki sjá á mjer, hvað mjer þykir vænt um að hann kemr. (Barið hægt á dyr vinstra megin. Arndís lýkr upp. Kjartan Felstad kemr inn). Gerið þjer svo vel! ó, það eruð þjer! jeg ætlaði varla að þekkja yðr.

*Kjartan* tekr í hönd Arndísar.

Þjer segið, að þjer ætluðuð varla að þekkja mig; en þjer meintuð það nú reyndar ekki.

*Arndís* dregr hendina til sin.

Jú, víst meina jeg það, — en takið þjer yðr sæti. (Kjartan [illegible] vinstra megin borðs, Arndís hinum megin). Er það [illegible]ki [illegible] að jeg þekki yðr ekki? Það er svo langt [illegible] [illegible]efi sjeð yðr, að jeg var nærri því búin [illegible]

*Kjartan.*

[illegible]gleymin? Þá vildi jeg óska, að [illegible] jeg fer nú annars að trúa þessu, [illegible]in að gleyma mjer tveim dögum [illegible]ðast.

*Arndís.*

Hvernig vitið þjer það?

*Kjartan.*

Jeg var hálfvegis á leiðinni hingað og þá mætti jeg yðr á Grand Avenue með þessum nýkomna himnaríkis-agent, honum sjera Jóhannesi. Jeg kastaði á ykkr kveðju lauslega; en þið vóruð svo niðrsokkin í samræðu, að hvorugt ykkar sá mig eða nokkuð í kring um ykkr, að jeg held, nema hvort annað.

*Arndís* brosandi.

Ó, nú veit jeg, hvað þjer eigið við. Hann pabbi bað mig að sýna sjera Jóhannesi helztu götur bæjarins, og jeg varð að segja honum frá búðum og byggingum og öllu, sem fyrir augun bar, svo að þjer verðið að fyrirgefa þótt jeg sæi yðr ekki.

*Kjartan.*

Náttúrlega, jeg gat ekki búizt við að þjer hefðuð augu eða eyru fyrir gömlu kunningjunum, því að þótt það sje ekki líkt yðr, þá höfðuð þjer sama starf sem freistarinn forðum, þegar hann var að sýna öll ríki veraldarinnar og þeirra dýrð.

*Arndís.*

Þjer hafið verið að lesa biflíuna síðan jeg sá yðr seinast, og komið með ritningargreinar, þótt þær eigi ekki sem bezt við efnið.

*Kjartan.*

Jeg skal játa það, að samlíkingin er ekki góð, því að sjera Jóhannes mun lítið líkjast meistaranum, að minnsta kosti í útlitinu, ef dæmt er eftir myndum Leon-

ardo's da Vinci og annara miðaldamálara; það er líka fráleitast í samlíkingunni, því dýrðleg hlýtr Milwaukee að vera í samanburði við Cross Roads

*Arndís.*

En freistarinn? Þjer sögðuð áðan að þar væri ólíku saman að jafna.

*Kjartan.*

Það tek jeg aftr, því að þótt þjer sjeuð honum í flestu gagnstæðar, þá eruð þjer öldungis eins hvað aðaleiginlegleikann snertir.

*Arndís* stendr upp.

Þakk' yðr fyrir! það væri synd að segja, að þjer væruð að skjalla mig, en má jeg spyrja: Í hverju er jeg svo lík fjandanum?

*Kjartan* brosandi.

Jeg sagði ekki, að þjer væruð lík fjandanum; þvert á móti, honum eruð þjer svo ólík sem dagrinn nóttunni, eftir því sem orð fer af honum; en jeg sagði, að þjer væruð lík freistaranum.

*Arndís.*

Jeg botna ekkert í þessu, sem þjer segið.

*Kjartan.*

Þjer eruð lík freistaranum þegar þjer freistið.

*Arndís.*

Jeg freista? Hvernig?

*Kjartan.*

Haldið þjer ekki, að þjer freistið hans sjera Jóhannesar til að falla fram og tilbiðja yðr?

*Arndís.*

Svo þjer komið hingað í dag rakleiðis til að brígzla mjer um háttalag mitt við sjera Jóhannes; það hefði samt verið vingjarnlegra, að vara mig við fyr; eða því biðuð þjer svona lengi?

*Kjartan.*

Manni getr orðið illa við, þegar manni er ekki svarað á alfaravegi, einkanlega ef það kemr fyrir hvað eftir annað.

*Arndís.*

Hvenær varð jeg brotleg í annað sinn?

*Kjartan.*

Jeg skal segja yðr það, þó jeg haldi að þjer munið það. Fyrir hjer um bil hálfum mánuði var jeg á leið hingað. Sat jeg þá stundarkorn á bekknum, sem er rjett hjá standmyndinni hans Leifs Eiríkssonar — þá sá jeg yðr og sjera Jóhannes neðar á árbakkanum og beið þar eftir ykkr, og þegar þið komuð upp á móts við Leif, kallaði jeg: »Gott kvöld,« en þið hjelduð á fram eins og enginn hefði yrt á ykkr.

*Arndís* hissa.

Vóruð það þjer? Við heyrðum þetta, en of seint til að geta tekið undir. Jeg hjelt að það hefði verið hann Jón Jónsson.

*Kjartan.*

Svo þjer hjelduð það væri Jón Jónsson! Stendr upp. Nú verð jeg að þakka yðr hjartanlega, en heldr vil jeg láta líkja mjer við fjandann, heldr en við hann Jón Jónsson.

*Arndís.*

Jeg sá yðr ekki; það var orðið svo skuggsynt.

*Kjartan.*

Nei, þjer sáuð mig hvorki nje heyrðuð; en hann Leifr sá mig halla mjer upp að steinstalli sínum þegar þið hurfuð; og þó hann sje steyptr úr hörðum málmi, held jeg að hann hafi hlotið að aumkast yfir mig — eða hann hefir ef til vill litið með fyrirlitningu á þennan ráðlausa og dáðlausa niðja, sem horfir agndofa á annan, sem kemr eins og fjandinn úr sauðarleggnum og rænir hann því, sem honum er dýrmætast í veröldinni. Það er líka ófyrirgefanlegr bleyðuskapr.

*Arndís.*

Jeg er alveg hætt að skilja yðr, og veit ekki, hvað þjer eigið við.

*Kjartan.*

Þjer fyrirgefið, þó að jeg trúi yðr ekki, því að það er ykkar eðli kvennfólksins að týna öllum skilningi við svona tækifæri; en Esóp segir dæmisögu, sem hjer á vel við, því að jeg er alveg eins og hjerinn, sem fór í kapphlaup við skjaldbökuna og var svo viss um sigurinn, að hann lagðist til svefns á miðri leið, en skjaldbakan hjelt áfram og var komin að markinu, þegar hjerinn vaknaði. Jeg hjelt að jeg væri fremstr allra í yðar augum, þótt við værum engum heitum bundinn. Mjer fanst endirinn að eins geta orðið sá, að leið okkar lægi saman í lífinu, og síðan jeg sá yðr fyrst finst mjer jeg vera að eins skuggi sjálfs mín, eða, rjettara sagt,

skuggi af yðr, því að þjer eruð ljósið, og missi jeg það, þá — —

*Arndís.*

Það kemr ekki til tals að neinn missi mig. Jeg ætla ekkert í burtu.

*Kjartan.*

Arndís, þjer vitið að hann sjera Jóhannes er hjer að biðja yðar, vitið að faðir yðar vill fyrir hvern mun að þjer takið honum, og svo munið þjer, að hún Þuríðr sagði mjer frá því hjer inni.

*Arndís.*

Já, hún Þuríðr segir svo margt.

*Kjartan.*

Jeg hefði ekki trúað því, að þjer veittuð sjera Jóhannesi minstu eftirtekt, hefðuð þjer ekki farið svona með mig á undan. Jeg trúi heldr engum framar.

*Arndís.*

Hvenær hefi jeg svikið yðr í nokkru?

*Kjartan.*

Aldrei, en þjer hafið forðazt mig eins og heitan eldinn síðan jeg kom hjer og því svöruðuð þjer ekki brjefunum, sem jeg skrifaði yðr?

*Arndís.*

Brjefunum? Jeg hefi engin brjef fengið frá yðr, og ekki sjeð yðr allan þennan tíma og í því skildi jeg ekki.

*Kjartan.*

Jeg hefi komið hingað þrisvar, þegar engin sála var heima, mætt yðr tvisvar og þjer gengið fram hjá mjer eins og jeg væri tómt loftið; svo skrifaði jeg yðr brjef

og fól á hendr Gertie Johnson; fjekk ekkert svar, varð þá óðr og uppvægr og skrifaði yðr í annað sinn og fól það líka á hendr Gertie, og þegar þjer svöruðuð því ekki, hjelt jeg þjer hefðuð reiðzt af efninu, sem ekki var eins hógvært og það hefði átt að vera, en jeg var svo sár og gramr.

*Arndís.*

Jeg hefði samt svarað, ef jeg hefði fengið eitt orð frá yðr; en það fjekk jeg ekki.

*Kjartan.*

Gertie er bezti póstr, það sje jeg; jeg sendi brjefin með henni, af því jeg hjelt þau gætu vakið óþægilega eftirtekt, ef þau kæmu hjer með póstinum — en Arndís, jeg ætla að spyrja yðr að einni spurningu: Hefir sjera Jóhannes beðið yðar enn? Og ef hann gerði það, munduð þjer taka honum?

*Arndís* brosandi.

Þetta eru tvær spurningar, og þeirri fyrri get jeg með sanni svarað með nei — enn hinni held jeg væri rangt af mjer að svara.

*Kjartan.*

Rangt? (stendr upp). Og hvers vegna? Það er ekki rangt; jeg heimta að fá að vita það.

*Arndís.*

Þjer heimtið — (stendr upp).

*Kjartan.*

Já, jeg heimta — hverjum kemr það við, ef ekki mjer, sem hefi elskað yðr frá því fyrst jeg sá yðr, Arndís? —

Arndís! þjer hljótið að hafa sjeð, hve dýrmæt þjer eruð mjer, það getr ekki hjá því farið.

*Arndís.*

Jeg hefi hugsað ýmislegt stundum, en alt ósamanhangandi, svo jeg gat ekki gert sjálfri mjer grein fyrir, hvað það eiginlega var, og svo hafið þjer heldr ekkert talað á þá leið.

*Kjartan* syngr.

Lag: When other lips and other hearts.

Þú veizt ei, hversu vel jeg ann
þjer, væna fagra mey,
hve leynt í brjósti loginn brann,
þó lýst því fengi' eg ei.
I æðum logar ástar-bál,
í augum tendrast fjör,
en tungan dofnar, tapast mál
og týnast orð af vör.

Þín augun á mig skína skær,
þú skilur ástbæn þá,
sem tungan varla talað fær,
en tjá vill hjartans þrá,
því ást þín, svási svanni, rís
sem sól, er roðar höf;
en án þín dapran dauða' eg kýs
þars deyfist hrygð — í gröf.

Þau faðmast.

## 2. ATRIÐI.

*Þuríðr* hægra megin.

Jeg sje jeg forsturra; þið verðið að únskjulla.

*Kjartan* vinstra megin, afsíðis.

Þuríðr, — fari hún þangað sem jeg óska henni.

*Þuríðr* snýr sjer til Arndísar.

Hann faðir yðar er alstaðar að leita að yðr.

*Arndís.*

Og datt ekki í hug að leita hjer.

*Þuríðr.*

Það lítr út fyrir það, en það var nú annars heppilegt, ekki satt Miss. Anderson? Hann faðir yðar hefði orðið brjálaðr, ef hann hefði sjeð yðr í þeim stellingum sem þjer vóruð í áðan.

*Gertie Johnson*

kemr inn vinstra megin. Þuríðr og Arndís hljóðskrafa.

Hallo, Daisy!

*Kjartan.*

Komið þjer sælar, Miss Johnson, má jeg fá þá ánægju að tala fáein orð við yðr?

*Gertie.*

U- hu.

*Kjartan.*

Jeg þakka yðr innilega fyrir brjefburðinn.

*Gertie.*

Oh. my!

*Kjartan.*

Jeg vildi, ef hægt væri, koma því til leiðar, að þjer

fengjuð embætti á pósthúsinu, því að þjer hafið svo mikla hæfileika sem póstr.

*Gertie.*

Oh, thanks.

*Kjartan.*

Hvenær sem jeg hefi áríðandi erindi, býst jeg við að fela þau yðr á hendr.

*Gertie.*

All right.

*Kjartan.*

Því að yðr er sannarlega trúandi.

*Gertie.*

U-hu!

*Kjartan* afsíðis.

Það snertir hana hvergi. (Til Gertie). Því hjelduð þjer ekki loforð yðar og fenguð Miss Anderson brjefin, sem jeg bað yðr fyrir?

*Gertie.*

Oh . . . well . . .

*Kjartan.*

Var það of mikil fyrirhöfn?

*Gertie.*

U-hu!

*Kjartan.*

I öllum guðanna bænum, hættið þjer þessu u-hu og hu-hu og talið mæltu máli.

*Gertie.*

All right.

*Kjartan.*

Skiljið þjer ekki íslenzku?

*Gertie.*

Oh no.

*Kjartan.*

Eruð þjer búin að gleyma íslenzku og hafið að eins verið fá ár í landinu?

*Gertie.*

Oh my, yes.

*Kjartan.*

Hjer um bil 5 ár?

*Gertie.*

Yes.

*Kjartan.*

Ó jú. Þjer skiljið alt, sem nauðsynlegt er, og bæði skiljið og vitið, að þjer svikuzt um að skila brjefunum til Miss Anderson, þótt þjer lofuðuð því statt og stöðugt.

*Gertie.*

Oh my! (**fer yfir til Arndísar og hvíslar að henni með miklum látalátum**).

*Arndís.*

Ertu frá þjer? Helldurðu að brjef sjeu ekki eins mikils virði þó Íslendingar hafi skrifað þau.

**Gertie hvíslar aftr með meira látæði.**

*Arndís.*

Jú, náttúrlega vil jeg fá brjef, sem til mín eru skrifuð, á hvaða máli sem er

**Gertie hvíslar enn meir en fyr.**

*Arndís.*

Nei, jeg get ekki fyrirgefið þjer það; þú varst eins skuldbundin að fá mjer brjefið, þótt þú færir á Pic Nic[1].

Gertie hvíslar með sem mestum látum.

*Arndís.*

Þess meiri ástæðu hafðir þú til að segja mjer frá því, þegar þú týndir því fyrra á Pic Nic, en því seinna gleymdir þú og sendir í kjólvasanum í þvott.

Gertie hvíslar enn meira enn fyr, gerir bendingar og klappar Arndísi.

*Arndís* brosir.

Ef þú værir ekki annar eins kálfr og þú ert, þá væri það gerandi að reiðast þjer alvarlega; en það allra undarlegasta við þig er, hvað þú ert fælin við íslenzkuna, þú sem hefir verið hjer svo stuttan tíma, og talar ensku ekki meira en í meðallagi, þegar maðr dæmir sem allra-vægast.

*Gertie* yptir öxlum.

Oh well!

## 3. ATRIÐI.

*Eiríkr* hægra megin.

Hjerna ertu, ljúfan mín. Komdu inn í mitt herbergi snöggvast, jeg þarf að tala við þig fáein orð í einrúmi, (snýr sjer til Kjartans) og jeg verð að biðja yðr að vera hjerna og tala við mig eftir svo sem 15 minútur.

1. Pic Nic = lystisamkoma undir berum himni.

*Kjartan.*

Sjálfsagt, jeg hefi erindi hjer í grendinni; svo kem jeg aftr hingað. [fer út vinstra megin.]

*Gertie* vingsar hendinni að Arndísi.

By-by, ta ta (fer vinstra megin. Eiríkr og Arndís fara hægra megin).

*Guðbjörg* kemr inn hægra megin.

Æ, Þura, ertu búin að bíða lengi? Jeg var að gá að ýmsu frammi (Þær setjast sín hvorum megin borðsins).

*Þuríðr.*

Ó góða, það gerir ekkert til, jeg segi þjer það satt, jeg saknaði þín ekki; jeg sá nokkuð, sem var svo interessant; ó þú getr ekki trúað hvað jeg sá!

*Guðbjörg.*

Jeg gjet vel trúað, að það hafi verið eitthvað nýstárlegt; en gettu, hvað jeg sá í morgun.

*Þuríðr.*

Æ, nei, góða, hvað? hvað?

*Guðbjörg.*

Þegar jeg var að greiða mjer, sá jeg mjer til skapraunar grátt hár í hægri vanganum á mjer, og var það eins óvelkomið og fyrsta haustmjöll, — það segi jeg satt.

*Þuríðr.*

Ó, veslings Guðbjörg, þú ert nú annars farin að eldast, ekki satt, góða.

*Guðbjörg.*

Ó jú, svona; við erum báðar komnar fram á miðbikið; okkr fer ekki fram úr þessu, en — Þura, viltu ekki

gá í kollinn á mjer, og sjá hvort þú sjer ekki fleiri, og rættu þá fjandans illgresin upp, hvert einasta.

*Þuríðr* (stendr upp, gáir í höfuð Guðbjargar og skellihlær).

Æ, góða, veiztu, hvað þú baðst mig um.

*Guðbjörg* önug.

Hvað gengr að þjer?

*Þuríðr* heldr áfram að hlæja.

Æ, góða, það væri lúalegt af mjer, ef jeg færi að lúga[1] höfuðið á þjer.

*Guðbjörg* snýr sjer við reið.

Við hvað áttu núna, Þuríðr?

*Þuríðr.*

Ef jeg reytti öll gráu hárin, sem jeg sje.

*Guðbjörg.*

Nú, hvað þá?

*Þuríðr* skellir upp yfir sig.

Þá yrðir þú nauðsköllótt, góða.

*Guðbjörg.*

Fjandans forsmán er að heyra til þín, Þuríðr, og ósannindi ferðu með, því að eins sá jeg eitt í morgun og þótti nóg, og sje jeg eins vel og þú að jeg hygg.

*Þuríðr.*

Æ góða, jeg er hrædd um að þú sjert farin að tapa sjóninni líka, ef þú hefir ekki sjeð nema eitt; en enginn stöðvar tímans gang. — Nú, en, hvað jeg vildi segja, hvað sýnist þjer um hann Jón Jónsson? Hver skyldi trúa að hann hefði komið hingað fyrir rúmum 6 vikum?

---

1. = reyta.

*Guðbjörg.*

Já, það má segja, hann hefir mannazt hann Jón; hann fjekk líka beztu vinnu undir eins og nú er hann búinn að fá ný föt.

*Þuríðr.*

Já, og nýtt mál líka, því að hann slettir ensku-blöndunni í allar áttir; þó getr hann, trúi jeg, ekki gert sig skiljanlegan innfæddum.

## 4. ATRIÐI.

*Jón* kemr inn.

Hel-ló, hel-ló, hel-ló! Jeg vona þið fílið vel[1].

(Heilsar þeim Þuríði og Guðbjörgu með handabandi).

*Þuríðr.*

Er þetta ekki blótsyrði, sem þjer farið nú með?

*Jón.*

Jeg held varla.

*Þuríðr.*

Mjer heyrðist þjer segja o hell, o hell, o hell[2], og það er mjer sagt að sje alls ekki pent[3].

*Guðbjörg* afsíðis.

Nei, hver fjandinn hóar, Þuríðr komin út í ensk orð. [Til Jóns]. Hvað segir þú í frjettum, Jón?

*Jón.*

Ekki neitt, sjálfr er jeg all-right[4].

---

1. ykkr líði vel. 2. Ó, helvíti! 3. fallegt. 4. frb. ol ræt. All right þýðir eiginlega »alveg rjett«; en »að vera all right« = líða vel [eða þvíl].

*Þuríðr.*

Það eru að sögn nýkomnir Islendingar í bæinn; hafið þjer sjeð þá?

*Jón.*

Já, jeg hefi sjeð þá, það eru tveir sóknarmenn sjera Jóhannesar, og segja beztu frjettir af kroppinum[1].

*Þuríðr* forviða.

Drottinn minn, hvaða kroppi?

*Guðbjörg.*

Láttu ekki líða yfir þig. Þeir kalla uppskeruna kropp; jeg held þú hafir heyrt það fyrr.

*Þuríðr.*

Nei, jeg hefi so-menn[2] ekki, Guðbjörg, en það vantar ekki að þú ert nógu ónotaleg.

*Jón.*

Hann Pít[3] Píterson sagði mjer, að þeir mundu draga fjóra kroppa upp úr jörðinni í ár og að stokkurinn[4] væri feitr og góðr.

*Þuríðr* tekr upp eftir Jóni.

Stokkrinn feitr og góðr? Jeg segi yðr satt, Jón, að þjer eruð orðinn svo þungskilinn, að jeg verð að fá mjer orðabók, til þess að komast að meiningunni hjá yðr.

*Guðbjörg.*

Skyldi Vestrheims-íslenzka finnast í orðabókum? Mikið efast jeg um það.

---

1. Crop — uppskera; jarðgróði. 2. sannarlega. 3. Pít [Pete] — Pjetr. 4. stock — búfje.

*Jón.*

Jeg kæri mig ekkert um íslenzku; enskan er svo mikið handhægri.

*Þuríðr.*

Máske fyrir þá sem kunna.

*Guðbjörg.*

Jeg held okkr farist ekki neinu okkar að fara í neitt mála-stímabrak, og það sje bezt fyrir okkr, að halda okkr við gamla móðurmálið, því það er það eina, sem við kunnum nokkuð í.

*Þuríðr.*

Ó, Guðbjörg, hvað þú getr verið illgjörn; þú gengr viljandi fram hjá því, hvernig jeg tala dönsku.

*Guðbjörg.*

Og það kallar þú illgirni, en jeg álít það mesta kærleiksverk.

*Þuríðr.*

Þú ert nú svo jaloux[1], af því þú kant ekkert í dönsku sjálf; jeg mætti dönskum manni í gær, sem sagði að jeg talaði dönsku öldungis eins og jeg væri Jyde[2] frá Alheden, en þetta gerir ekkert til; það er eins og önnur rangindi úr þjer, Guðbjörg. Snýr sjer til Jóns. Jón, mjer var sagt, þjer hefðuð mist peninga á leiðinlegan hátt í fyrra kvöld.

*Guðbjörg.*

Já, það er víst satt, því jeg heyrði það líka.

*Jón.*

Oh yes, Oh yes[3]. Hann Sigurðr Goodmann[4]

---

1. jaloux [frb. sja-lú] — öfundsamr. 2. Jóti. 3. o-já. 4. Guðmundsson.

hefir víst verið að fúla[1] ykkr með því að segja frá því sem kom fyrir í fyrra kveld.

*Þuríðr.*

Jeg hjelt Sigurðr væri fárveikr; það hafði jeg heyrt og við höfum ekki sjeð hann.

*Guðbjörg.*

Í hverju lá hann?

*Jón.*

Læknarnir kölluðu það duluríu trjemenn[2]; hann var mjög veikr, en er nú betri.

*Þuríðr.*

Það er, trú jeg, einhver versta veiki; sumir segja að það hafi verið sú veiki, sem gekk að honum Job gamla, þegar hann var allr útsteyptr í kýlum.

*Jón.*

Engin kaun eða kýli hafði Sigurðr útvortis; það var mest á sálunni sem hann leið.

*Guðbjörg.*

Varst þú yfir honum meðan hann lá?

*Jón.*

Það held jeg; jeg var þar dags daglega, því hann býr í bakinu[3] á mjer.

*Guðbjörg* stygg.

Það gerir ekkert til, hvernig þessu er varið; en hvernig mistir þú peningana, Jón?

*Jón* hlær kuldahlátr.

Það hefir einhver verið að fúla ykkr með þeirri sögu.

1. fool — narra. 2. delirium tremens — ölæði [della]. 3. I Bagen [norska] þ.e. í aftrhluta hluta hússins [sem veit burt frá strætinu]. Jón býr í framhluta hússins.

*Þuríðr.*

Nei, því jeg forsikkra[1] yðr, að við höfum heyrt það, og þjer megið til að segja okkr frá því.

*Jón* dinglar fæti.

Jeg kæri mig ekki um að segja frá því, sem stendr; en hafið þið heyrt af nýju maskínunni, sem gerir öll húsverkin, svo nú þarf kvennfólkið ekkert að gera og getur verið að fitta[2] sig allan guðslangan daginn, horfa í spegilinn og dressa[3] sig.

*Þuríðr.*

Nei, ekki eitt orð, en er það mögulegt?

*Jón.*

Jeg sá hana sjálfr; hún er so sem sona há (mælir með hendi frá gólfinu) og so sem sona breið, og þó hún sje ekki stærri, þá er hún einn sá gagnlegasti hlutr, sem jeg hefi sjeð, því hún þvær upp diskana, stoppar sokkana og svæfir barnið án nokkurrar aðgæzlu á stuttum tíma.

*Guðbjörg.*

Hvað skyldi þeim detta í hug næst?

*Þuríðr.*

Dæmalaust eruð þjer opvakt[4], Jón; þjer sjáið alla mögulega hluti, og ekki svo fáa ómögulega, en nú skal jeg segja yðr frá undarlegri maskínu, sem jeg hefi sjeð.

*Jón.*

Jæja, láttu mig heyra.

*Þuríðr.*

Sú sem jeg á við, er svo ágæt, að það þarf ekki

1. fullvissa. 2. máta fötin á. 3. klæða, skreyta. 4. greindr.

annað en að láta í hana hráan, íslenzkan dóna, og eftir örstuttan tíma kemr hann úr henni harðbakaðr, uppdubbaðr Ameríkumaðr, gentlemaðr[1]:

*Jón* dinglar fætinum.

Og hvar er þessi merkilega maskína til sýnis?

*Þuríðr.*

Það er Ameríka sjálf.

*Guðbjörg* til Þuríðar.

Þarna ert þú lifandi. En þú hefir úr á þjer, Jón, hvað er klukkan orðin?

Jón þrífr í festi og dregr lyklakyppu upp úr vasanum.

*Þuríðr.*

Nei, sko! nei, sko! þjer hafið lykla á úrfestinni í staðinn fyrir úr; þjer áttuð þó úr — ekki satt?

*Jón.* Honum verðr bilt við.

Jú, jeg hafði úr og það ágætt; það gekk fljótara en nokkurt úr, sem jeg hefi sjeð, en jeg tapaði því til allrar bölvunar á gemling'-húsinu[2] ásamt peningunum.

*Þuríðr.*

Ó, segið þjer okkr frá því.

*Guðbjörg.*

Jeg held þjer sje það óhætt, það er svo sem ekki eins og við höfum orð á því aftr.

*Jón.*

Við Sigurðr Goodmann vorum rjett að krossa strítuna[3], þegar við mættum manni, sem vinnr á sjappanum[4] með Sigurði, og hann fúlaði okkr til að fara inn á gemling'-hús með sjer.

1. prúðmenni. 2. gambling house — spilahús. 3. cross the street — fara yfir um strætið. 4. shop — verkstofa, verksmiðja.

*Þuríðr.*

Hvað segið þjer, gemlingahús? Ekki vissi jeg til þess að það fyndust fjárhús inni í miðjum bænum, og er jeg búin að vera hjer í þrjú ár.

*Jón* hlær kuldahlátr.

Það var ekki þess háttar hús, sem menn geyma fje sitt í; heldr munu flestir tapa fje sínu þar.

*Guðbjörg.*

Það eru spilahús, sem hann á við; hann Jón minn sálugi þekkti þau, þó honum auðnaðist ekki langt líf hjer, og hann sagði mjer frá þeim.

*Þuríðr.*

Æ góða, fyrir alla muni, lofaðu honum Jóni þínum að hvíla í ró; ó, jeg er svo spent; haldið þjer áfram, Jón.

*Jón.*

Já, sagan er ekki löng; við fórum allir upp í geml-ing'húsið, og var þar fjöldi manns fyrir, sem voru að betta á[1] nokkuð, sem þeir kölluðu kínó; kunningi minn fúlaði mig til að betta; jeg tapaði, en sá að aðrir unnu í kring um mig, og í þeirri von að vinna hjelt jeg áfram, þangað til hver eyrir var farinn og úrið með. Svo þegar jeg var brotinn[2] og vildi halda á-fram að betta, urðu þeir fjandi illir í skapi og köstuðu mjer á dyr, en jeg sneri samt aftr. Jæja, þeir gera svo vel og kasta mjer niðr endilangan stigann, og er það sá harðasti stigi, sem jeg hefi komizt í tæri við. Maðr tekr ekki eftir þess konar, þegar maðr gengr

1. veðja um. 2. broke, gjaldþrota.

niðr á fótunum á vanalegan hátt, en þegar maðr fe niðr langan stiga á þeim parti líkamans, sem jeg fó þá er maðr sár og aumr daginn eftir.

*Þuríðr.*

Margt drífr á dagana fyrir yðr, Jón, en við hverju er líka að búast eftir aðra eins ferðasögu?

*Guðbjörg.*

Ætli það væri ekki gerandi, að fá sjer kaffisopa núna? Mjer finnst þú þurfa þess, Jón. Komið þið inn í borðstofu. Þar getum við notið einhvers og talazt við um leið. (Þau fara út hægra megin).

### 5. ATRIÐI.

*Kjartan* kemr inn vinstra megin

Hvað skyldi hann vilja mjer? Líkast til ætlar hann að taka af öll tvímælin, því nú veit hann, hvernig í öllu liggr, og heldr að jeg spilli ráðum hans. Ha neyðir hana þó aldrei til að eiga sjera Jóhannes; en hann leggr mikið að henni, það er jeg viss um, því prestarnir eru uppáhaldið hans, og hann heldr að það sje heilög skylda, að útvega henni það sem hann álítu dýrmætast. — En hún — hverju svarar hún? Jeg veit hún forðast með öllu móti að styggja föðr sinn — en jeg veit líka, að hún elskar mig.

*Eiríkr* kemr inn hægra megin.

Þjer trúið ekki, hvað mjer leiðist að þurfa að hreyfa við því umtalsefni, sem jeg hefi nú, því okkr hefir alla-

jafna komið svo vel saman og vildi jeg ógjarnan að nokkur breyting yrði á því.

*Kjartan.*

Jeg segi sama fyrir mig, og jeg er líka viss um, að þar þarf engin breyting á að verða.

*Eiríkr.*

Það er alveg undir yðr sjálfum komið.

*Kjartan.*

Nú, er það svo? Ef það er allt undir mjer komið, þá skuluð þjer ekki bera kvíðboga fyrir því; jeg mun ekki spilla samkomulaginu, heldr vona jeg að sambúð okkar verði enn þá betri og nánari en áðr

*Eiríkr.*

Hún getr ekki orðið betri en hún er, en það sem jeg þykist skilja á yðr að þjer meinið með nánari sambúð, þá er það ómögulegt, og það er einmitt það sem jeg vildi tala um við yðr.

*Kjartan.*

Hversvegna er það ómögulegt?

*Eiríkr.*

Sökum þess að jeg hefi aðrar ráðstafanir fyrir Dísu litlu.

*Kjartan.*

Og ætlið þjer, jafnástríkr faðir og þjer eruð, að ráðstafa framtíð barns yðar án þess að spyrja hana að henn ar eigin vilja?

*Eiríkr.*

Til hvers er það fyrir unglinginn að eiga foreldra, ef unglingrinn ræðr sjer sjálfr og tekr ráðin af þeim gömlu í því vandamáli, sem mest á ríðr? Því þó ung-

lingrinn sje gáfaðr og efnilegr á allan hátt, vantar hann samt það sem mest á ríðr, einmitt við svona tækifæri, og það er reynslan.

*Kjartan.*

En þjer hafið samt talað við dóttr yðar?

*Eiríkr.*

Það sem jeg talaði við hana, var svo ómerkilegt, að jeg er jafnfróðr eftir sem áðr um vilja hennar — hún var eitthvað svo undarleg og sjálfri sjer ólík — jeg komst að eins að einni niðrstöðu.

*Kjartan.*

Og hún er?

*Eiríkr.*

Að hún veit ekki, hvað hún vill; einhver annar verðr að vita það fyrir hana, og jeg þekki engan því betr vaxinn eða nákomnari en hann föðr hennar. Nú vitið þjer, hvað jeg meina.

*Kjartan.*

Já, jeg skil það helzt til vel — þjer ætlið að gifta hana með yðar, en móti hennar vilja.

*Eiríkr.*

Jeg ætla að gefa hana þeim manni, sem jeg held henni bezt samboðinn, og að Arndís verði prestskona, er náttúrlegt; hún er af gömlum prestaættum; móðir hennar var prestsdóttir, og hefði verið biskupi boðleg, ef hún hefði ekki tekið mjer, blessuð, sem var sljettr og rjettr bóndamaðr fyrir norðan. Þó jeg væri vel efnaðr og þætti settr til menta fram yfir flesta af minni stjett, vissi jeg vel, að jeg var ekki hennar jafningi í neinu.

Þegar hún dó nú fyrir 15 árum, kom í mig óeirð og fór jeg hingað með Dísu litlu; hefðum við verið kyrr heima, hefði hún getað fengið hvern prestinn sem hún vildi. Svo — má jeg spyrja — þótt hún hafi orðið gjafvaxta hjer vestan hafs, á hún þá að gjalda þess, jafnfríð og efnileg stúlka?

*Kjartan.*

Nei, þvert á móti; hún á að njóta þess.

*Eiríkr.*

Að njóta þess, segið þjer?

*Kjartan.*

Já, að njóta þess, að kvennfólk hjer hefir meira frjálsræði í þeim efnum; að fiskum og fjórðungum er ekki ætíð troðið inn í hjónabandssáttmálana, og að ljeleg eða einskisverð embætti eru ekki ætíð höfð í fyrirrúmi.

*Eiríkr.*

Lífsskoðanir mannsins þykir mjer mest vert um; jeg er gamall maðr með gömlum og, að jeg hygg, góðum skoðunum. Þjer farið að sumu leyti alveg í gagnstæða stefnu við mig, og því er verr og miðr, að Arndís mun ekki laus við það.

*Kjartan.*

Hvað gerir það til þótt við horfum í gagnstæðar áttir, ef við mætumst í sama stað, þegar til verkanna kemr?

*Eiríkr.*

Þegar jeg heimsótti yðr seinast, leit jeg svona lauslega yfir þessar mörgu og fögru bækr, sem þjer hafið;

þar sá jeg Hegel og Schlegel, Darwin og Draper; en ekki sá jeg samt biflíuna.

*Kjartan.*

Þó á jeg biflíuna, en jeg játa það fúslega, að þegar eg er búinn að lesa Proctor og Flammarion þá þykir mjer Jósúa daufr.

*Eiríkr.*

Þetta sýnir bezt, hversu gagnstæðir við erum hvor öðrum, og hversu ómögulegt það er fyrir okkr að verða nánari eins og þjer töluðuð um áðan; en það er ekki til neins að halda þessum kítingi áfram; Arndís hefir statt og stöðugt lofað mjer, frá því hún var barn, að hún skyldi aldrei gifta sig á móti mínum vilja. Yðr hefir hún líka engu lofað, svo mikils hefi jeg orðið var.

*Kjartan.*

Samt er jeg öruggr í voninni, að jeg fái hana, og til þess vil jeg alt vinna, jafnvel láta vígja mig til prests; það er ógn-hægt, því ekki þarf undirbúninginn langan — enda sýna þeir það sumir þessir »snöggsoðnu« prestar. — Það má segja hjer í landi, að »allan skrattann vígja þeir«.

*Eiríkr* reiðr.

Jeg er of lengi búinn að hlusta á yðr. (Víkr sjer að hægra megin). Arndís!

*Arndís.*

Jeg kem, jeg kem. (Kemr).

*Eiríkr.*

Ætlarðu að halda það sem þú hefir svo marglofað mjer, eða ertu búin að gleyma því?

*Arndís.*

Nei, jeg er ekki búin að gleyma því; þú hefir beðið mig að breyta ekki við þig eins og þær Amerísku gera — að strjúka burt og giftast án vilja þíns. Það geri jeg heldr aldrei.

*Kjartan.*

Arndís, þessa rós eigið þjer (bendir á frakkahornið); þjer þiggið víst blómstr hjá mjer?

*Arndís* tekr blómstrið.

Rósum neita jeg ekki, þær eru of yndislegar til þess.

*Eiríkr.*

Þið getið talað undir rósum, það gerir ekkert til, því dóttir mín svíkr mig aldrei. (Arndís leggr hendr um háls föður sínum).

Tjaldið fellr.



## ÞRIÐJI ÞÁTTR.

Degi síðar.

---

### 1. ATRIÐI.

*Eiríkr* sitr til vinstri.

Já, það var sannarlega kominn tími til að taka í taumana. Guðbjörg hafði rjett fyrir sjer, og jeg held næstum, að henni hafi verið farið að lítast á hann, það er líka ekki svo ónáttúrlegt, því Kjartan er skolli laglegr maðr — ef hann væri ekki svona fífldjarfr í skoðunum á ýmsu. En sjera Jóhannes kemr í dag frá Chicago; hann er nú búinn að vera þar í viku, og þykir víst nóg. Sagði hann mjer, þegar hann fór af stað, að hann mundi tala við hana um það sem mest á ríðr, þegar hann kemr aftr, og sagðist vera öldungis viss um að hún mundi taka sjer, og hann veit, hvað hann segir, góði maðr.

*Guðbjörg* kemr inn hægra megin.

Hjer er brjef til þín, Eiríkr.

*Eiríkr.*

Til mín? (Tekr brjefið og les). — »Kæri vinr og landi. Jeg skrifa yðr fáein orð, til þess að láta yðr vita, að jeg mun verða í Milwaukee á morgun. Talsverð breyting hefir orðið á fyrir mjer síðan við sáumst, og veldr hún því að jeg verð að breyta mínum ráðstöfunum og verð

einnig nauðbeygðr til að raska loforði mínu eða rjettara sagt því aftali, sem við gerðum í Milwaukee.

Yðar með vinsemd og virðingu.

Jóhannes Jónsson«.

— Hvað meinar hann? hvað hefir breyzt?

*Guðbjörg.*

Skilr þú það ekki, maðr; það eru auðsjáanlega mægðirnar, sem hann á við.

*Eiríkr.*

Mægðirnar? heldrðu að hann sje að skorast undan að verða tengdasonr minn? (Bistr). Ertu genginn frá vitinu?

*Guðbjörg.*

Ekki alveg eins og þú, sem tróðst Arndísi upp á hann nauðugan og ljezt eins og þú værir ekki með öllu viti. Það var von, að maðrinn yrði leiðr á því og vildi fyrir hvern mun skorast undan, því þó Arndís sje lagleg stúlka, vantar hana samt reynslu til að vera prestskona — það sjer hver maðr.

*Eiríkr.*

Hvaða vitleysu ferðu með, Guðbjörg! Hann sem hefir lofað Dísu svo mikið og marg-beðið hennar. Það þarf heldr ekki að hafa hana á boðstólum; hún er ekki svo ólagleg telpan.

*Guðbjörg.*

Þess heldr ættir þú að vera afskiftalaus um þetta.

*Arndís* kemr inn hægra megin og fer til Guðbjargar.

Hjer er brjef til þín víst.

*Guðbjörg* þrífr brjefið.

Karlmannshönd. (Les í hljóði).

*Arndís* afsíðis.

Það er póstmerkt í bænum.

*Guðbjörg* brosir, brýtr brjefið saman og stingr í vasa sinn.

Jæja, Eiríkr bróðir; jeg spái því þú tengist við sjera Jóhannes eftir alt saman, en tengdafaðir hans verðr þú varla.

*Eiríkr.*

Heldr hvað?

*Guðbjörg.*

Heldr verðr þú mágr hans, því brjefið, sem jeg fjekk rjett núna, er biðilsbrjef frá sjera Jóhannesi, og er alls ekki ólíklegt, að jeg taki honum. Það eru nú 5 ár síðan jeg kom hingað frá Íslandi og 3 ár síðan hann Jón minn sálugi dó; þú hugsar einungis um dóttr þína; jeg er einmana, enginn hugsar um mig.

*Eiríkr* hugsandi.

Lofaðu mjer að sjá brjefið.

*Guðbjrg.*

Nei, nei; jeg held varla að jeg fari að sýna þjer brjef, sem til mín eru skrifuð, einkanlega s o n a brjef.

*Arndís* fer til Eiríks og leggr hönd um háls honum.

Þú tekr þjer þetta aldrei nærri; það veit jeg, því með því gerir þú lítið úr mjer.

*Eiríkr.*

Mig skortir vit, þegar jeg geri lítið úr þjer, ástin mín, og einnig skortir mig þá mátt til að verja þig, ef jeg þoli öðrum það, hver sem í hlut á.

*Arndís* brosandi.

Jeg vona, að þú viljir ekki losna við mig.

*Guðbjörg* dregr upp brjefið og les aftr brosandi.

*Eiríkr.*

Að losna við þig! Hvernig talar ljúfan mín núna? Það er einmitt það, sem jeg kvíði fyrir; þess vegna er jeg svo vandlátr um það, sem jeg er viss um að hlýtr að koma fyrir, og vil fyrir hvern mun að hún dóttir mín fái bezta mann.

*Arndís.*

Og einkanlega mann, sem vill hana og þykir í hana varið?

*Eiríkr.*

Sem vill hana dóttr mína! Sá maðr, sem ekki sjer að hún er öllum fremri, er hvorki húshæfr nje kirkjugræfr.

*Arndís.*

Jeg þekki einungis einn, sem er alveg á þinni meiningu. Hann er sá eini, sem getr fullnægt þessum kröfum, sem þú gerir mín vegna.

*Eiríkr.*

Jeg skil, hvað þú átt við, ljúfan mín, og veit að það sem þú segir er dagsatt; jeg sje líka að jeg hefi verið allra-mesti þverhöfði og sjervitringr, en jeg skal bæta úr því snögglega. Það er hægt, því jeg hefi meðal, sem skal koma þessum höfðingja fljótlega í skilning um, að hans er ekki saknað. (Hann lítr í kringum sig. Ákafr). Jeg skal sem fyrst bæta úr mínu heimskuflani og um leið

bæta úr þeim rangindum, sem jeg hefi sýnt hinum bezta manni sem við þekkjum.

*Arndís.*

Að hverju leitar þú?

*Eiríkr.*

Að hattinum mínum.

*Arndís.*

Hann er frammi; jeg skal finna hann fyrir þig.

(Eiríkr og Arndís fara út hægra megin).

*Guðbjörg.*

Hver skyldi trúa því? En þetta sagði Þuríðr, að það væri jeg, en ekki Arndís, sem hann vildi; jeg er líka á bezta giftinga-aldri — en einmana.

## 2. ATRIÐI.

*Guðbjörg*

syngr, raunalega fyrst, þar til hún heyrir rödd frá Sálinni hans Jóns míns, þá lifnar hún öll við.

Einslegt er lífið og löng er sú ganga
unz líðr frá huga mjer armæðan stranga,
sakna jeg ávalt og seint mun jeg gleyma
sárgrátins ástvinar nálægð að þrá.

*Sálin hans Jóns míns.*

Hættu að gráta; huggast skalt láta;
hel mig nje dauða ei heimtarðu frá.

*Guðbjörg.*

Sálin hans Jóns míns sáluga talar,
sætt hljómar rödd hans svo himnesk og blíð;

ó hversu mínum anda það svalar,
ó hversu ljettist nú hjarta míns stríð.

*Sálin hans Jóns míns.*

Ef einhver girnist, áðr en fyrnist,
ást þína og kosti, erfa mig hann má.

*Guðbjörg.*

Jeg hlusta með gleði; jeg heyri þig vinur.

*Bæði.*

Himnesku ráðin { þín / mín } huggun { mjer / þjer } ljá;
{ þjer hlýð' eg / þú hlýðir } sem fljótast að tök eru á.
Í himnasal er horfið { þitt / mitt } stríð,
Í táradal { jeg tef hjer / þú tefur } um hríð.
Brátt endar braut,
Brátt sigrast þraut.

*Sjera Jóhannes.*

kemr vinstra megin í ferðabúningi með malpoka í hendi.

Komið þjer sælar, Guðbjörg mín. Hvernig sæki jeg að yðr?

*Guðbjörg.*

Upp á það allra bezta. [Tekr við hatti og malpoka og leggr til hliðar]. Eiríkr bróðir er genginn út, en jeg býst við að þjer eigið helzt erindi við mig í þetta sinn.

*Sjera Jóhannes.*

Jeg verð hjartans feginn að sjá alla [sezt vinstra megin].

*Guðbjörg.*

En sjerstaklega mig (brosir til Jóhannesar, sezt hægra megin) undir vissum kringumstæðum. (Sjera Jóhannes lítr snögglega til hennar). Jeg fjekk brjefið rjett áðan.

*Sjera Jóhannes* hissa.

Hvaða brjef?

*Guðbjörg.*

Brjefið góða með boðinu væna.

*Sjera Jóhannes.*

Þjer verðið að fyrirgefa þó jeg skilji yðr ekki.

*Guðbjörg.*

Og það er ekki hætt við því. Þjer skiljið; en jeg skil ekki í þessum látalátum hjá yðr. Er ekki bezt að ganga beint að efninu?

*Sjera Jóhannes.*

Hvaða efni? Jeg veit ekki af neinu efni, sem jeg þarf að taka til umræðu.

*Guðbjörg.*

Hvað segið þjer? Ætlið þjer ekki að gangast við brjefsefninu?

*Sjera Jóhannes* snýr sjer við betr.

Hvaða brjefsefni, kona? Jeg hefi engum skrifað síðan jeg fór, nema honum bróður yðar, og ef nokkuð er í því brjefi, sem þarf útskýringar, þá getum við átt um það okkar í milli.

*Guðbjörg.*

Nú skil jeg, yðr hefir snúizt hugr síðan. —

*Sjera Jóhannes.*

Snúizt hugr? Með hvað? Til hvers? Hvað meinið þjer, manneskja?

*Guðbjörg* hristir höfuðið.

Hver skyldi trúa, að jeg yrði fyrir annari eins meðferð?

*Sjera Jóhannes* afsíðis.

Hún er óð! (hátt) Hvaða meðferð?

*Guðbjörg.*

Og það af manni í yðar stöðu.

*Sjera Jóhannes* afsíðis

Hún er bandóð. Seilist eptir hattinum,

*Guðbjörg* stekkr upp.

Nei, sjera Jóhannes, þjer farið ekki eitt fet hjeðan meðan þjer gerið mjer ekki grein fyrir þessu háttalagi.

*Sjera Jóhannes.*

Mín þolinmæði er á þrotum; jeg skil ekki eitt orð af því sem þjer segið, og er viss um, að þjer gerið það ekki sjálfar.

*Guðbjörg* rjettir honum brjefið.

Hafið þjer ekki skrifað þetta brjef, þó þjer viljið ekki gangast við því nú?

*Sjera Jóhannes* gefr brjefinu hornauga.

Jeg hefi aldrei skrifað yðr; um hvað skyldi jeg skrifa yðr?

*Guðbjörg.*

Og um það sem menn skrifa konum oft og tíðum.

(Rjettir brjefið að sjera Jóhannesi; hann les.)

*Sjera Jóhannes.*

Undirskriftin er J. Johnson; en það er einhver annar en jeg. Brjefskrifarinn segist hafa mætt yðr í gær, þegar hann var að krossa strítuna; jeg brúka ekki þess háttar orðalag, þegar jeg skrifa á íslenzku; þar að auki er skriftin, hamingjunni sje lof, alveg ólík minni, því það er eins og stráð sje krókapörum yfir örkina.

*Guðbjörg.*

Hvernig stendr á þessu öllu? Mig er farið að svima.

### 3. ATRIÐI.

*Jón* fyrir utan dyrnar.

Helló! hell-! (Kemr inn vinsra megin). Helló, helló!

*Sjera Jóhannes.*

Ah — hjer sje jeg annan J. Jónsson. Komdu sæll, Jón minn, þú komst í tíma.

*Jón* ivið kendr.

Sælir, sjera Jóhannes; sælar, Guðbjörg (rjettir sínu hvo hendina). Nú fíla jeg bærilega; jeg er nýbúinn að bíta[1] Sigurð Goodman, og beit jeg hann svo vel, að hann getr aldrei bitið mig eins. Sigurðr er að tríta[2] uppi í sínu rúmi[3]; hver sem vill getr farið upp í Sigurðar rúm og fengið trít[4], því hann hefir bíríð[5] og keikið[6] í kvortavís[7]. Það er borgunardagr Sigurðar í dag, af því trítar hann, en jeg fíla svo vel, af því jeg fúlaði Sigurð, því hann heldr það sje ómögulegt að bíta sig í damm,

1. beat [bit] — sigra. 2. veita. 3. herbergi. 4. veitingar. 5. bjórinn. 6. kökurnar. 7. í pottatali.

en — (lítr í kring um sig) hefir Gertie Johnson verið hjer í dag?

*Guðbjörg.*

Nei, ekki enn þá; vildir þú sjá hana?

*Jón.*

Jeg skrifaði henni nótu[1] hingað og kom til þess að fá svar.

*Sjera Jóhannes* rjettir honum brjefið.

Þetta er þó aldrei nótan, sem þú átt við?

*Jón* rjettir fram hendina.

Jú, einmitt.

*Guðbjörg* þrífr brjefið.

Þetta brjef er til mín, sjera Jóhannes, þó þjer ekki viljið gangast við því.

*Sjera Jóhannes* brosandi

Einhver verðr að feðra það.

*Jón.*

Lofið þjer mjer að sjá; jeg þykist kannast við útlitið.

*Guðbjörg* hugsar sig um og fær honum loksins brjefið.

Þetta bref er til mín, Jón.

*Jón.*

Nei, nei. Þetta er nótan, sem jeg skrifaði Gertie, en hún er rifin upp; hvernig stendr á því?

*Guðbjörg.*

Þetta brjef var mjer fengið. Utanáskriftin er til Mrs[2]. G. Johnsson, svo, má jeg spyrja, hver á það nema jeg?

1. note — sendibrjef. 2. les: mistress [frb. missis] — húsfreyja.

*Jón.*

En það átti að vera til Gertie Johnson, það er allt saman misskilningr.

*Sjera Jóhannes* hlær.

Já, hjer er orðinn talsverðr misskilningr.

*Guðbjörg.*

Já, brosið þjer, það á svo vel við hempuna. (Til Jóns). Það var einmitt það sem þig vantaði, Jón minn, þig vantaði Miss[1]-skilning, því þú skrifaðir utan á til Mrs. G. Johnson í staðinn fyrir Miss G. Johnson, þó jeg ekki geti skilið, hvaða erindi brjef til Gertie hafa hingað.

*Jón.*

Hún býr í basementi[2], og vill síðr að póstrinn komi þangað.

*Guðbjörg.*

Þarna kemr einhver. (Til sjera Jóh.). Það mun vera Eiríkr bróðir minn, og mun hann vilja tala við yðr; en komdu, Jón minn, inn í borðstofu með mjer, þá skal jeg reyna að koma þjer í skilninginn um þetta allt saman. (Jón og Guðbjörg fara út hægra megin).

*Sjera Jóhannes* einn.

Sú er ekki kjarklítil; því segi jeg það: ekkjurnar, ekkjurnar! Vel mátti Willer vara Sam við ekkjunum.

---

1. Miss — yngismær. 2. basement — kjallari.

## 3. ATRIÐI.

*Eiríkr* kemr inn vinstra megin.

Hvað! kominn aftr? (Þeir heilsast).

*Sjera Jóhannes.*

Þjer fenguð brjefið frá mjer?

*Eiríkr.*

Já, það fjekk jeg, og varð æði bylt við í fyrstu, af því jeg skildi ekki meininguna, fyr en jeg athugaði fleiri atvik. En því töluðuð þjer ekki við mig blátt áfram, eins og maðr talar við mann? Því þjer hafið ekki þurft að fara til Chicago til þess að yðr snjerist hugr.

*Sjera Jóhannes.*

Mjer hefir ekki snúizt hugr með neitt.

*Eiríkr.*

Ekki það? Vóruð þjer ekki eftir öllu útliti að dæma ákafr að fá Arndísi dóttr mína?

*Sjera Jóhannes.*

Jú, náttúrlega.

*Eiríkr.*

En þjer vöktuð ekki máls á því við hana áðr en þjer fóruð?

*Sjera Jóhannes.*

Ekki beinlínis. Þjer báðuð mig um, eins og þjer munið, að gefa henni tækifæri til að kynnast mjer sem bezt fyrst, og ef jeg ympraði eitthvað á þess háttar, þá snjeri Miss Anderson því undir eins upp í spaug og skellihlátr.

*Eiríkr.*

En þótti yðr hún ekki heldr ung og óreynd, þegar þjer fóruð að hugsa betr um, hvað gagnlegast væri í yðar stöðu, og báðuð svo annarar, sem ekki hafði þá ókosti?

*Sjera Jóhannes.*

Hafið þjer trúað þeirri banvænu vitleysu líka?

Gengr með fasi um gólf.

*Eiríkr.*

Því skyldi maðr ekki trúa því sem maðr sjer með eigin augum, og einkanlega því sem þjer skrifið sjálfr um yðar breyttu hagi og þau loforð, sem þjer sjeuð nauðbeygðr að taka aftr?

*Sjera Jóhannes.*

Nei, nei! skárri er það misskilningrinn; fyrst og fremst hefi jeg ekki skrifað systur yðar, og dettr það ekki í hug.

*Eiríkr.*

Hún fjekk samt brjef frá yðr rjett núna.

*Sjera Jóhannes.*

Nei, ekki frá mjer; það var frá Jóni Jónssyni og var alls ekki ætlað systur yðar, heldr Gertie Johnson; en Jón er ekki sterkr í enskunni og skrifaði Mrs. fyrir Miss. Þaðan flýtr alt þetta. Það getr komið manni á kaldan klaka, að vera Johnsson hjer í landi.

*Eiríkr.*

Jeg er öldungis hissa; en ekki breytir það brjefsefni yðar til mín, þar sem þjer talið um breytingu á ráði yðar. Hvað hefir breyzt síðan þjer fóruð hjeðan fyrir rúmri viku?

*Sjera Jóhannes.*

Breyzt? Jú, það hefir talsverð breyting orðið á fyrir mjer síðan; þjer munið, að jeg sagðist mundu útskýra það nákvæmara hjer.

*Eiríkr.*

Nei, það mintuzt þjer ekki á.

*Sjera Jóhannes.*

Jeg fjekk nefnilega brjef að heiman, meðan jeg var í Chicago; í því vóru þær frjettir, að Presbýteríanar og Únítarar gengju um kring sem grenjandi ljón að fá sóknarmenn mína til að ganga inn í sína söfnuði, og hefir meir en helmingr sóknarmanna látið að orðum þeirra. Þjer munið, að jeg sagði yðr, að sífeldar deilr væru í söfnuðinum.

*Eiríkr.*

Jú, jeg man það.

*Sjera Jóhannes.*

En mestu vandræðin eru, hvernig villutrúarmenn úr öllum áttum leita á sóknarmenn, eins og úlfar á lítinn lambahóp, og því ver eru lömbin of auðtekin.

*Eiríkr.*

Enginn er annars bróðir í leik.

*Sjera Jóhannes.*

Það má segja, og nú getið þjer sjeð, hvort ástæður mínar hafa ekki breyzt.

*Eiríkr.*

En hvað er um þetta loforð, sem þjer segizt vera nauðbeygðr að taka aftr? Haldið þjer að jeg sje að binda yðr nauðugan við nokkur loforð?

*Sjera Jóhannes.*

Þjer sjáið sjálfr, að mjer er nú ómögulegt að byrja bú í svo stórum stýl að þjer getið flutt til okkar svona fyrst um sinn. Þjer munið, að þjer töluðuð um að flytja til okkar þegar við værum gift.

*Eiríkr.*

Nú, það er svona! — Jæja, þjer þurfið samt ekki að æðrast um mig, því jeg verð hjer kyrr í bænum hjá dóttur minni.

*Sjera Jóhannes.*

Hjá dóttr yðar?

*Eiríkr.*

Já, nú verð jeg einnig að segja yðr mína sögu, því hafi orðið stórkostleg breyting á hjá yðr, þá hefir líka orðið dálítil breyting hjá okkr. — Hjer er maðr í bænum, — vænsti maðr, — Kjartan að nafni, sem hefir unnað Arndísi hugástum, án þess jeg vissi neitt um það fyr en rjett nýlega. Jeg vildi ekki gefa mitt samþykki, af því sem farið hafði okkar á milli, þangað til Guðbjörg fjekk brjefið frá yðr.

*Sjera Jóhannes* tekr fram í.

Hún hefir aldrei fengið neitt brjef frá mjer.

*Eiríkr.*

Jæja, þangað til þetta Johnsons brjef kom til hennar, þá þóttist jeg vita, að yðr hefði snúızt hugr, og af því ekkert er út á Kjartan setjandi, gaf jeg mitt samþykki til þess. Þeim þykir ósköp vænt hvoru um annað og koma víst bráðum hingað.

*Sjera Jóhannes.*

Þetta kemr allt flatt upp á mig, að ástæðulausu, og öll þessi óheppni kemr af því að jeg er Jónsson; því ekki veit jeg að jeg hafi gert neitt fyrir mjer og finnst mjer jeg hart leikinn.

*Eiríkr.*

Ekki eru þjer það að mínum ráðum; það er ólukkans misskilningr, sem hefir valdið þessu; það er ekki lengi að koma snurða á þráðinn stundum.

*Gertie*

kemr inn vinstra megin, fer að spegli og lítr mjög ánægjulega í hann.

Hello!

*Eiríkr.*

Friðrinn er úti.— Gerið þjer svo vel og bíðið þjer hjer; jeg kem bráðum aftr, og þá skulum við skrafa um þetta. (Fer hægra megin).

*Sjera Jóhannes* afsíðis.

Jeg mun fara sem fæstum orðum um þetta samt, öðrum til ánægju, en mjer sjálfum til raunar. En að fara heim konulaus, það dugir ekki; þeir eru búnir að heyra af biðilsför minni þar og það eykr ekki virðinguna ef ef maðr bíðr ósigr. Það yrði nóg efni fyrir gárungana heilt ár, ef jeg kæmi heim aftr hryggbrotinn. Nei, ef jeg gæti fundið laglega stúlku, sem mjer gæti fallið geð til, skyldi jeg biðja hennar undir eins (stynr). — En það er víst hægra sagt en gjört. (Lítr við og horfir á Gertie um stund). — Ef það tækist! (Til Gertie). Guðrún! (Gertie gýtr á hann augunum og hreyfir sig ekki). Miss Johnson!

*Gertie.*

Yes, Sir.

*Sjera Jóhannes.*

Má jeg njóta þeirrar ánægju að tala við yðr fáein orð?

*Gertie.*

U-hu.

*Sjera Jóhannes.*

Yðr dettr, sem von er á, ekki í hug, hvað umtalsefnið er.

*Gertie.*

U-hu.

*Sjera Jóhannes.*

Komið þjer hingað og setjizt hjer hjá mjer (setr stól fyrir Gertie. Hún sezt og sjera Jóhannes við hlið hennar).

*Sjera Jóhannes* tekr í hönd Gertie.

*Gertie.*

Oh my[1]!

*Sjera Jóhannes.*

Guðrún mín góð!

*Gertie* hrekkr saman.

*Sjera Jóhannes.*

Má jeg ekki kalla yðr Guðrúnu?

*Gertie.*

No, oh no[2]!

*Sjera Jóhannes.*

Heldr Miss Johnson?

*Gertie.*

No, no.

*Sjera Jóhannes.*

Heldr hvað?

*Gertie* Brosir blíðlega til hans.

Gertie.

---

1. frb. 6, mæ — 6, herra trúr. 2. Nei, æ nei!

*Sjera Jóhannes.*

Það kann jeg ekki við, þegar við tölum á okkar máli, og það sem jeg ætla nú að segja, verð jeg að segja á íslenzku.

*Gertie.*

Well, all-right[1].

*Sjera Jóhannes.*

Viljið þjer gera eitt fyrir mig?

*Gertie.*

U-hu.

*Sjera Jóhannes.*

Þjer lofið því?

*Gertie.*

Yes.

*Sjera Jóhannes.*

Það er að svara mjer á íslenzku.

*Gertie.*

Oh my!

*Sjera Jóhannes.*

Viljið þjer gera annað fyrir mig?

*Gertie.*

Yes.

*Sjera Jóhannes.*

Nei, nei. Segið þjer já eða nei.

*Gertie* stynr.

*Sjera Jóhannes* klappar á hönd Gertie.

Viljið þjer verða konan mín?

---

1. Jæja, látum svo vera.

*Gertie.*

Oh my gracious[1].

*Sjera Jóhannes* stendr upp og gengr um gólf.

Það er hvorki my gracious eða neitt annað en hreint og beint já, eða (staldrar við við hlið Gertie) nei, sem jeg vona það verði ekki. (Tekr höfuð Gertie milli handanna og horfir í augu henni). Segið þjer já, Guðrún, gott gamalt, einfalt, íslenzkt já.

*Gertie.*

Oh my —

*Sjera Jóhannes.*

Nei, nei, ekki það heldr.

*Gertie.*

Já, — fyrst þjer endilega viljið það.

*Sjera Jóhannes* brosandi, reisir Gertie upp úr stólnum.

Það er einmitt það sem jeg vil, og þakka þjer ástsamlega fyrir svarið og skulum við nú innsigla samninginn með kossi. (Þau kyssast. Arndís og Kjartan koma hægra megin).

*Arndís.*

Velkominn aftr, sjera Jóhannes.

*Kjartan* til Gertie.

Komið þjer sælar, Miss Johnson.

*Sjera Jóhannes.*

Guðrún mín, til hvers er að bíða með tíðindin? (Til Arndísar). Vinstúlka yðar, Guðrún Jónsdóttir, er búin að heita því að verða konan mín, og með því gerir hún mig manna sælastan. Jeg veit að þjer samgleðjizt okkr.

1. Ó, drottinn minn dýri!

*Arndís* rjettir sjera Jóhannesi höndina.

Það geri jeg af hjarta. (Til Gertie), Þú ert þá svona slæg!

*Gertie.*

Mjer hefir litizt vel á sjera Jóhannes frá því fyrst jeg sá hann; en þó jeg sje ekki góðr póstr, get jeg samt haldið tíunda boðorðið, sjerstaklega þar sem jeg hjelt að þú ættir í hlut [brosir til Arndísar], og svo datt mjer ekki í hug, að honum mundi lítast á mig.

*Kjartan.*

Fagrt mál er íslenzkan; jeg óska yðr til lukku, Miss Johnson. [Tekr í hönd sjera Jóhannesar].

*Eiríkr* kemr hægra megin.

*Kjartan* til Eiríks.

Nú gengr það bærilega. Þarna eru önnur hjónaefnin. [Bendir til sjera Jóhannesar og Gertie].

*Eiríkr.*

Nei, hvað heyri jeg? Er þetta alveg satt, sjera Jóhannes?

*Sjera Jóhannes.*

Það er heilagr sannleiki, hamingjunni sje lof!

*Eiríkr.*

En hvað er orðið af Guðbjörgu?

*Jón* fyrir utan vinstra megin.

Helló. He — [Guðbjörg og Jón koma iun hægra megin].

*Guðbjörg.*

Komdu, hjartað mitt; komdu og segðu fólkinu, hvað skeð hefir.

*Jón.*

Segðu því það sjálf.

*Guðbjörg.*

Jæja, elskan mín. [Þuríðr kemr inn vinstra megin].

*Þuríðr* til Guðbjargar.

Æ góða, jeg var svo forvitin, jeg gat ekki á mjer setið, jeg segi það alveg satt, að koma yfir um að fá að vita, hvað þið Jón voruð að gera yfir í þýzku kyrkjunni. (Arndís og Kjartan hljóðskrafa hægra megin).

*Guðbjörg.*

Heyrðu, hjartað mitt, segðu henni, hvaða erindi við áttum.

*Jón* önugr.

Segðu henni það sjálf, kona.

*Guðbjörg* klappar Jóni.

Hvað gengr að þjer, elskan mín, láttu ekki liggja illa á þjer á þessum degi.

*Jón* færir sig frá Guðbjörgu.

Æ láttu ekku ekki svona; hugsaðu ekki um, hvernig liggr á mjer.

*Eiríkr* fer til Guðbjargar.

Jeg er nú orðinn forvitinn líka, Guðbjörg; en þetta getr ekki verið?

*Jón* fer afsíðis vinstra megin.

*Guðbjörg.*

Hvar er maðrinn minn? Hann getr sagt þjer hvað skeð hefir. [Horfir í kring um sig]. Hvar ertu, elskan mín?

*Jón* súr.

Láttu ekki svona, kona; jeg er ekki farinn langt.

*Þuríðr* rýkr til Guðbjargar.

Nei, hvað segir þú, góða? Maðrinn þinn? Það er

þá eins og mig grunaði; þú hefir tekið Jón, svo Jón er kominn Jóns í stað.

*Eiríkr* hissa.

Þú ert ekki lengi að breyta skoðun þinni, Guðbjörg.

*Þuríðr.*

En ekki hefir þú breytt nafninu, góða, því þú heldr beint áfram að vera Mrs. Johnson, svo einn legsteinn getr dugað fyrir þá báða, ef því er að skifta. Ó, hvað þú ert ökonomisk.

*Guðbjörg.*

Til hvers var að bíða með það, sem átti að ske á annað borð? Við fórum til fyrsta prestsins, sem við fundum.

*Þuríðr.*

Þú hefir samt ekki skilið hann, góða, því hann er þýzkr og gerir öll sín prestsverk á þýzku.

*Guðbjörg.*

Það gerði jeg að vísu ekki, en hann er lúterskr samt. (Snýr sjer við og skygnist eftir Jóni). Hvar ertu, hjartað mitt?

*Jón.*

Er jeg ekki hjerna? Hvað viltu?

*Guðbjörg.*

Jeg ætlaði að spyrja þig, hvort þú værir ekki viss um, að prestrinn er lúterskr, sem gaf okkr saman?

*Jón.*

Hann er lúterskr.

*Guðbjörg.*

Jæja, þá er jeg ánægð; en heyrðu, heillin mín, las hann hjónavígsluna á þýzku?

*Jón.*

Það var þýzka, sem hann fór með. Alt, sem endar á -heit og -mein er þýzka.

*Kjartan.*

Það má segja, að Milwaukee ber það orð með öllum rjetti, að hann sje einn af mestu giftingastöðum heimsins, því hjer sýna verkin merkin í dag.

*Eiríkr.*

Það má nú segja.

*Kjartan.*

Og köllum nú bravo fyrir brúðhjónunum! (Arndís tekr í hönd Guðbjargar, fer svo til Kjartans. Þau standa hægra megin. Eiríkr hægra megin við þau. Sjera Jóhannes og Gertie til vinstri. Jón og Guðbjörg koma fram á miðjan leikpall. Þuríðr er vinstra megin við Guðbjörgu).

*Jón og Guðbjörg* syngja.

Í hjónabandsins helga sess
Við hugglöð sitjum nú;
Af hjarta óskum öllum þess,
Þeim auðnist gæfan sú.

*Guðbjörg.*

Eginkonu kærast hnoss
Kýs eg mjer.

*Jón.*

Kýs hún sjer.

*Guðbjörg.*

Kýs mjer.

*Jón.*

Sjer.

*Guðbjörg.*

Að lifa einn er ekki gott,
Það er víst flestra sögn.

*Jón.*

Því bera sumir bágan vott,
En bezt fer mjer víst þögn.

*Guðbjörg.*

Að eignast góðan ektamann
Er ei tjón.

*Jón.*

Jeg var flón.

*Guðbjörg.*

Hvað segir þú, Jón?

*Jón.*

Já, flón.

*Guðbjörg.*

Og konan bónda ástum ann,
Þá una sjer vel hjón.

*Jón.*

Ef bóndinn ei sjer bjarga kann,
Hann brestur vit og sjón.

*Guðbjörg.*

Hjónaband, hjónaband, ó heilagt stand!

*Jón.*

Hjónaband, hjónaband, ó þvílíkt stand!

*Guðbjörg.*

Jeg það kýs, fremur öllu kýs.

*Jón.*

Hún það kýs, fremur öllu kýs.

*Bæði.*

Í hjónabandsins helga sess
Við hugglöð sitjum nú,
Af hjarta óskum öllum þess,
Þeim auðnist gæfan sú.

*Öll.*

Að ástin hnýti hjarta og mund,
Oss heilla finst það ráð,
Svo giftist halir, giftist sprund
Um gjörvalt heimsins láð.

**Tjaldið fellr.**

